# Æfisaga Bjarna Pálssonar,

sem var

fyrsti Landphysikus

á Íslandi.

Samantekin

árid 1799, edur 20 árum frá andláti hans,

af

**Sveini Pálssyni,**

Landchirúrgó í vestari Skaptafells-, Rángárvalla-, Arness- og Vestmanneyja-sýslum.

> Minnst þess! at margr lifir sá litla ríd, er lengi lifir athaufn hans eptir hann, oc vardar þat miklo, hvørs minnaz er eptir hann; þvíat sumir verda frægir af gódum verkum, oc lifa þau jafnan eptir hann, oc er hans sæmd lifandi jafnan, þó at hann se sjálfur daudur.
>
> Kóngs Skugg-sjá.

Leirárgerdum vid Leirá, 1800.

Prentud á kostnad Sýslumanns V. Thórarinssonar, af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

Bæn vor er sú ein!
    Ad byrgja vildir
Sjálf-launnd verk,
    Fyri sonum manna.
Lát oss æ þann fagnad
    Í leyndum hafa,
Ad vjer manndygd eina
    Fyri manndygd rækjum.
Er þeim svo varid
    Sem ordróm ei' hyrda?
Hverjir skulu nöfn vor
    Hylla med reykjelsum?
Vitit ér, Mannkyn!
    Ad mestur er vor sómi
Gódra dádum lýsa,
    Er þeir duldar vildu. —
Megu ecki slíkir
    Menn í degi
Undir gleymsku sofa,
    Nje aldur-tila.

Must. mannordsins.

# Fyrimáli.

Þó mér á litlu ríði, hvort nockurr edur enginn steytir sig á, ad eg hér rita Lifs-sögu manns, sem ei einúngis eitt sinn sá vidlíka og Móses leit Drottinn, og daudur er fyri 20 árum, vil eg samt, til verdugs þacklætis þeim, er mig styrktann hafa, drepa á hvadan eg hefi ausid, sem undir eins talar fyrir sannsögli minni. Tel eg þá fyrstann allra Benedikt Prest, bródur Landphysici sáluga, henum má þacka módur-ætt Bjarna og mikinn hluta sögunnar, þángad til hann fór fyrsta sinni utan. Þar nærstann set eg Hannes Biskup Finnsson; frá honum og Benedikt Presti er fødur-ættin, og sumt er líka frá Biskupi, er framkom vid Bjarna, er hann dvaldi vid Háskólann. Auk þess hefi eg studst vid Almanok hans, þó morg séu glotud, líka ymisleg bréf og skjol af odrum meddeild; og sérílagi hafa mig í ymsu glogg-

vadann: Konrektor H. Hjálmarsson, Apótekari M. Ormsson og náúngar sjálfs Bjarna, sem til hesi náð. Rithátt minn tek eg ecki í forsvar, en hitt vild'eg, að maðurinn þecktist til hlítar af sögu minni, þótt ecki fái eg gjört hann að Engli, né brúkað túngu-tak sumra, er nú á dögum rita lífs-sögur. Snemmtekinn ylþocki við nafn og ætt Bjarna, og lengi alin lángan, að vekja, eptir mínum efnum, nær því gleymdann orðstýr hans, hefir einúngis, og ecki annað, þrýst mér til þessa, og þykist eg vel hafa varið litlu ómaki, ef ecki þykir miður þeim, sem árna góðs moldum og minníngu hans, er eg trúi flestir séu, sem þecktu hann. Um fráfall hans veit eg ecki hafa qveðið strax, nema Sigfús Prófast í Höfða norður, í Tíðavísum sínum yfir árið 1779, stöku þessa:

Dygðarikur Doctor Bjarni,
Drifinn, góður Læknari,
Landphysicus lysta-gjarni,
Lengi þjáður, viðskyldi.

Skrifað á ofanverðu ári 1799.

Æfi-

# Æfisaga
# Bjarna Pálssonar.

Madur er nefndur Páll, fadir hans var Bjarni Prestur í Vesturhóps-hólum Þorsteinsson, en módir, Philippía Þorláksdóttir frá Borg í Vididal. Þorsteinn fadir Bjarna Prests var Prestur ad Vesturhóps-hólum lika; hans fadir Ásmundur Prestur samastadar, Þorsteinsson, Gudmundssonar, Andréssonar, Gudmundssonar, Arasonar ens Rika. Ásmundur Prestur Þorsteinsson átti Þurídi dóttur Þorbergs Bessasonar Sýslumanns í Eyjafirdi, og Helgu dóttur Finnboga Lögmanns Jónssonar. Gudmundur Andrésson átti Jarþrúdi dóttur Þorleifs, sem bædi var Riddari ad nafnbot, og Hyrdstjóri yfir Islandi ár 1490, giptur Ingveldi Helgadóttur Lögmanns á Økrum, og Kristinar dóttur Þorsteins Lögmanns á Vidimýri. Þorleifur Riddari var son Bjørns Rika, Hyrdstjóra yfir Islandi 1457, hann var sleginn í hel af Enskum vestur í Rifi; Bjørn átti Óløfu Loptsdóttur

ens Ríka frá Mødruvøllum; hún hefudi dauda bónda sins á Engelskum, en leysti út Þorleif son sinn úr haldi þeirra. Létu þau hjón, Bjørn og Olof eptir sig í fasteignum LL. hundrud hundrada, í kúgyldum XII hundrud hundrada, og í virdínga-gótsi LXXX hundrud hundrada. Fadir Bjørns Riddara var Þorleifur Ríki Arnason sem átti Vatnsfjardar Kristínu; en því var hún svo nefnd, ad hún býsti svo prýdilega stadinn Vatnsfjord, sem alkunnugt er af Annála-bókum vorum, og bjó þar. Hún var dóttir Bjørns Riddara Jórsalafara, sem þrisvar fór til Róms, og vída annars; kona hans hét Solveig. Foreldrar Bjørns Riddara vóru: sú nafnfræga kona Grundar Helga og Einar son Eiríks, er gior var Riddari ár 1316 af Magnúsi Kóngi Hákonarsyni; Eiríkur átti Vilborgu fyri konu, sem jørdud er í Vatnsfirdi, hann var son Sveinbjarnar Sudvíkings, sem kominn var af háum stigum í Norvegi, og saga er frá.

Módir Bjarna Prests, en kona Þorsteins Prests Asmundarsonar, var Margrét [*]) dóttir

[*]) Ønnur Ættartala, hvørri Hannes Biskup trúir midur, telur svo: Margret þessi var Bjarnadóttir Prests á Grenjadarstad, Gamlasonar (systir Sigrídar Bjarnadóttur, sídari konu þess lærda Officialis Arngríms Jónssonar á Melstad) Prests á Stad í Hrútafirdi, fødurbródur Gud-

ir Bjarna Pálssonar á Skridu í Hörgárdal [2]). Hann átti 11 börn, sem eptirlifdu med

A 4 móð-

Gudbrandar Biskups, Hallgrímssonar, Sveinbjarnarsonar Prests og Officialis Þórdarsonar. Barna-módir Sveinbjarnar Prests var Þórdís dóttir Finnboga ens Gamla ad Asi í Kelduhverfi, Jónssonar Lángs, er miklar ættir eru frákomnar. Kona Bjarna Prests Gamlasonar var Þurídur Gudmundardóttir, Einarssonar, var sá Gudmundur födurbródir Þorláks Biskups Skúlasonar. Kona þessa Gudmundar var Ljótun dóttir Páls á Holtastødum, Grímssonar á Mødruvøllum, og s. fr.

[2]) Bródir Bjarna á Skridu var Erlendur Prófastur á Breidabólstad í Vesturhópi, sem átti Bjørgu dóttir Kráks, er var fyrri madur Helgu dóttur Jóns Logmanns Sigmundarsonar og Bjargar Þorvaldsdóttur. Módir Jóns Logmanns var Solveig Einarsdóttir Bjørnssonar, Einarssonar Jórsalafara. Seinni madur Helgu Jónsdóttur var Þorlákur Prestur Hallgrímsson á Stadarbacka, fadir þeirra Gudbrands Biskups á Hólum, og Þórdar bónda á Mardarnúpi í Vatnsdal. Synir Þórdar vóru þeir Þorlákur á Stóruborg, sem bæ bygdi í Vídidalsár-ey, og Hallgrímur, sveinn Biskups Gudbrandar, sem dó snögglega vid Hvamm í Laxárdal. Sonur þeirra Erlendar Prófasts og Bjargar Kráksdóttur, var Olafur Prestur á Breidabólstad, fadir Bjargar, konu Sveins Prests

módur sinni Haldóru, þá er hann drucknadi á Grímseyjar-sundi, einn þeirra var Hallur (kalladur Bardi Hallur), fadir Bjarna Prests á Upsum, Páls Prests á Haraſtødum í Sjólandi og Teits Gullsmids. Bjarni á Skridu var son Páls á Holtaſtødum, Grímssonar á Mødruvøllum, Pálssonar samaſtadar, Brandssonar Løgmanns Jónssonar, hvørs réttdæmi Bjørn á Skardsá prísar svo mjøg; hann gétur líka um med hvada kappi Páll sonur hans vardi Hvaſſafells málid. Módir Bjarna Pálssonar á Skridu var Helga dóttir Narfa Þorvaldssonar Bónda á Geyrraudar-eyri, sem nú kallaſt Narf-eyri, á Skógarſtrønd, og Þurídar laundóttur Bjørns Ríka Þorleifssonar, og er sú ætt ádur-talin til Sveinbjarnar Sudvíkings. Kona Bjarna Pálssonar á Skridu, Haldóra, sem ádur er nefnd, var dóttir Bjørns Prófaſts á Melſtad í Midfirdi, Jónssonar Biſkups Arasonar; finnſt ætt Jóns Biſkups uppeptir rakin aptan vid þá prentudu Skardsár Annála, þó þar vanti í nockra lidu, og þeir fyrſtu ſé, eins og nærri má géta, umſkyggdir forntídar ſkrøksegu myrkva; enda hefir Jón Biſkup ſjálfur rakid ætt ſína til Dana- og Troju-Kónga upp ad Adam ſjálfum. Annars var Gudmundur Ríki Ejúlfsson ellefti upp frá Biſkupi

Prests Jónssonar á Bardi, hvadan beint er rakin Goddala-ætt, edur, sem adrir nefna Bardsætt.

upi í módur-ætt hans, en Gudmundur var son Hallberu dóttir Þórodds Hjálmúrs, og Reginleyfar dóttir Sæmundar ens Sudureyska, er nam Sæmundarhlíd nordur; fedur-módir Gudmundar Ríka var Valgérdur Örnúlfs-dóttir, hennar módir Vilborg, hennar módir Ulfrún hin Uborna dóttir Ósvalds ens helga. Ejúlfur fadir Gudmundar Ríka var son Einars sonar Helgu dóttir Helga ens Magra, er nam Eyjafjörd, og Þórunar Hyrnu, dóttir Ketils Flatnefs, Bjarnarsonar Bunu, Grímssonar Hersis úr Sogni, Hervararsonar Hálogadóttur Kóngs, sem vid er kennt Hálogaland; en Helgi Magri var son Eifindar Austmanns og Rafaurtu dóttir Kjarvalds Ira-Kóngs. Kona Gudmundar Ríka var Þorlaug dóttir Atla ens Rama, Ejúlfssonar Arnar, Bárdarsonar, Járnkétillssonar, Refskidasonar ens Gamla. Módir Þorlaugar var Herdís dóttir Høfdaþórdar, Bjarnarsonar Byrdusmjørs, Hróarssonar, Hrollaugssonar, Bjarnarsonar Járnsídu, Ragnarssonar Lodbrókar, Sigurdarsonar Hrings Randverssonar, hvers módir var Audur Djúpudga dóttir Ivars Vídfadma, sem var enn seytjándi frá Odni. Módir Herdísar var Rádbjørg dóttir Fridgérdar dóttir Kjarvalds Ira-Kóngs [3]).

 Mód-

[3]) Med ásettu rádi er þessi ættsiudnll Jóns Biskups Arasonar rakinn svo lángt, en ecki hinir. Af Jóni

Módir Bjørns Prófasts Biskupssonar á Melstad, en' medhjálp og barna-módir Jóns Biskups, var Helga Sigurdardóttir, Sveinbjarnarsonar Prests og Officialis frá Múla (sá Sveinbjørn var 50 barna fadir) Þórdarsonar, af Jóns Lángs ætt. Barna-módir Bjørns Prófasts var Steinun dóttir nafnfrægs høfdíngja Jóns bónda á Svalbardi, Magnússonar þar, Þorkéllsonar Prests í Laufási vid Eyjafjørd, Gudbjartssonar Prests ad Bægis-á, og er þessi Svalbards-ættar-studull audrakinn til Landnáms-manna. Kona Magnúsa Þorkéllsonar á Svalbardi var Kristín, dóttir Ejúlfs bónda Arnfinnssonar Riddara, Þorsteinssonar Løgmanns 1358, og Hyrdstjóra 1369, Ejúlfssonar á Vídimýri. Kona Ejúlfs Arnfinnssonar var Snælaug Gudnadóttur, Odds sonar Lepps Løgmanns Þórdarsonar. Kona fyrrnefnds Jóns Magnússonar á Svalbardi, var Ragneidur (i raudum sockum) Péturs-

Jóni Biskupi eru komnir enir gøfgustu menn á landi hjer, eins og hann átti kyn ad rekja til mestu manna í fyrndinni, og þó hefir enginn til þessa tekid málstad hans móti skrøkullri Kirkju-søgu; enginn litid til hans ypparlegu gáfna; enginn talid hvad fødurlandid á honum ad þacka; enginn minnst þess, ad hann leid píslar-vætti fyri dygd, en enga klæki. Diktur hefir súnginn verid ødrum eins, og Veráldar-sagan vill þó einhvørntíma láta hann merkis-mann ná rjetti sínum!

ursdóttir og Sigrídar Þorsteinsdóttir frá Reynir í Mýrdal. Helgasonar, bródur Ingveldar Helgadóttur, hvorrar uppháflega er getid; Pétur var Loptsson og Steinunar Gunnarsdóttir, Loptur var son Orms launsonar Lopts Ríka á Mødruvøllum, sem líka var Riddari, og reid jafnlega med 20 sveina milli búa sinna. Straxnefndur Ormur átti Solveigu dóttir Þorleifs Arnasonar og Vatnsfjardar Kristinar, dóttir Bjorns Jórsalafara, Einarssonar, Eirikssonar Riddara og Vilborgar Einarsdóttur, sonar Þuridar, dóttir ens nafnfræga Snorra Sturlusonar; finnst øll sú ætt rakin aptan vid Gunnlaugs søgu Ormstungu. Kona Péturs Loptssonar var Ragneidur Eiríksdóttir frá Keldum, Þorsteinssonar á Reynir, Helgasonar Løgmanns Ejúlfssonar.

Philippía, kona Bjarna Prests á Vesturhóps-hólum, var dóttir Þorláks á Stóruborg í Vididal, hagleiks manns á sinni tíd. Þórdarsonar á Mardarnúpi í Vatnsdal, bródur Gudbrandar Biskups Þorlákssonar Prests á Stadarbacka í Midfirdi, Hallgrímssonar, Sveinbjarnarsonar Officialis, hvors ádur er getid. Módir þeirra Gudbrandar Biskups og Þórdar á Mardarnúpi var Helga dóttir Jóns Løgmanns Sigmundarsonar, en módir Jóns Løgmanns var ádurnefnd Solveig dóttir Þorleifs Arnasonar og Vatnsfjardar Kristínar, en Þorleifur sá Arnason var kominn af Gissuri

urí Jarli Þorvaldssyni. Módir Philippíu; en sídasta qvinna Þorláks Þórdarsonar á Mardarnúpi, var Solveig dóttir Bjørns í Bólstadahlíd, Magnúsarsonar, Bjørnssonar Officialis á Melstad, Jónssonar Biskups Arasonar og Steinunnar Jónsdóttur. Kona Magnúsar þessa Bjørnssonar var Haldóra, dóttir Eiríks undir Asi í Fellum og Þuridar, dóttir Þorleifs Grímssonar nordan frá Mødruvøllum, Pálssonar, hvørs fyrr var gétid, Brandssonar Løgmanns Jónssonar. Kona Gríms Pálssonar var Helga, dóttir Narfa Þorvaldssonar og Þuridar, dóttir Bjørns ens Ríka Hyrdstjóra í Vatnsfirdi Þorleifssonar, er fyrr var nefndur, Arnasonar. Kona Þorleifs Grímssonar var Solveig Hallsdóttir. Fadir Eiríks var Snjólfur undir Asi, Brandsson Prests á Hofi í Vopnafirdi, Rafnssonar Løgmanns Brandssonar ad Raudaskridu, og Margrétar dóttir Ejúlfs Riddara Arnfinnssonar, Þorsteinssonar Løgmanns og Snælaugar Gudnadóttur, Oddssonar Lepps Løgmanns, sem ádur er talid. Kona Bjørns Magnússonar í Bólstadahlíd var Oddni, dóttir Jóns Einarssonar á Gunnsteinsstødum í Lángadal og Ragneidar [4]. Egilsdóttur frá Geitisskardi. Um hjónabands undirbúning þeirra Bjørns og Oddniar talar Bjørn á Skardsá Annal. Tom. II, p. 24. Egill fadir Ragneidar var sonur Jóns bónda Einars-

[4]) Annad Ættartal nefnir hana Ranveigu, mun þad heldur rángt.

arsſonar á Skardi í Lángadal og. Kriſtínar Gottſkálksdóttur Biſkups Grimma; en kona Egils Jónsſonar var Gudrún, dóttir Þorleifs Lögmanns ad Skardi á Skardsſtrønd, Páls- ſonar einnig á Skardi, ſem veginn var á Ønd- verdri eyri í Eyrar-ſveit, Jónsſonar, As- geirsſonar [5]) í Ögri. Kona Jóns Asgeirs- ſonar var Kriſtín Gudnadóttir, Oddsſonar Lepps Lögmanns Þórdarſonar, hvørs opt er minnſt. Kona Þorleifs Lögmanns var Stein- un Eiríksdóttir frá Keldum, Þorſteinsſonar fyrrnefnds, Helgaſonar Lögmanns á Økrum. Kona Páls Jónsſonar á Skardi var Solveig Bjørnsdóttir hins Rika Hyrdſtjóra Þorleifs- ſonar og Øløfar dóttur Lopts Rika, hvørjir bádir Riddarar fyrr eru nefndir. Sídaſta ekta- qvinna Þórdar Þorláksſonar og módir Þor- láks fødur Philippin, var Hólmfrídur [6]) dótt- ir

[5]) Adrar Ættartølur kalla hann Aſgrimsſon.

[6]) Hjer misminnir Ættartølin, þad frá Benedikt Preſti ſegir: Kona Þórdar á Mardarnúpi, en módir Þorláks, var Gunnhildur dóttir Þor- láks á Núpi í Dýrafirdi, er tekinn var í Lög- manns kjør, Einarsſonar, Sigvaldaſonar Lánga- lífs Sigurdarſonar. Sigvaldi ſá var hálf 4da alin á hæd, bjó auſtur á Sídu, ættadur ad veſt- an. Hann átti Þurídi laundóttur Einars Þor- leifsſonar og Vatnsfjardar Kriſtínar. Sídari kona Þorláks þeſſa Einarsſonar, en módir Gunn- hildar

ir Jóns Prests í Grímstúngum, Bjørnssonar, Hákonarsonar á Vindheimum í Hørgárdal, Hallssonar, Finnbogasonar ens Gamla, á Ási í Keldulhverfi, Jónssonar Lángs.

Páll Bjarnason, hvørs endverdlega var gétid, barst í heim þenna ár 1666 ad Vesturhópshólum, og þegar er hann hafdi aldur til, var hann af Bjarna Presti fodur sínum settur til læringar í Hóla-skóla; var hann þar nockra vetur, og ad lidinni sinni skóla-veru, dvaldi hann med foreldrum sínum þar til hann vard Rádismadur á Lambanesi í Fljótum nordur, hjá Sigrídi Sveinsdottur Prests á Bardi ádurnefnds, er þar bjó ógipt mær, og vóru þau óskackir Fjórmenníngar; þá var honum veitt Hvanneyri í Siglufirdi, og sókti hann Prestsvígslu austur ad Odda ár 1696; því þá var Einar Þorsteinsson Hóla Biskup ný-andadur, en Bjørn Þorleifsson Biskups-efni til Hóla, sat þá ad Odda. Reid Páll sudur Kjøl um veturnætur, og tók vígslu af Birni Biskups-efni 1ta Sunnudag í Adventu.

Madur hét Ásmundur og Kristín kona hans, hann var Haldórsson, Ásmundssonar; Hald-

hildar var Vígdís Þórólfsdóttir Ejúlfssonar frá Hjalla í Ølfussi, Jónssonar, sem átti Ásdísi systur Øgmundar Biskups Pálssonar, Gudmundarsonar. Kona Þórólfs var Margret, laundóttir Erlends Løgmanns Þorvardssonar, Loptssonar Ríka frá Mødruvøllum.

Haldór lærdi innan lands og utan, seinast lagdi hann sig eptir Prentara-kunnst, og hafdi í rádi ad stadnæmast vid hana í Þýdskalandi, en Þorlákur Hóla Biskup Skúlason skrifadi eptir honum, og fékk hann til Prentara ad Hólum. Hefir hann prentad Þorláks Bibliu og fleiri bækur í þess Biskups tíd. Hann bjó ad Ingveldarstødum í Hjaltadal, og átti fyrst Ólöfu Gudmundsdóttur frá Hraunum í Fljótum, en ad henni andadri, átti hann Sigrídi [7]) Grímsdóttur smids frá Vidvík [8]) systur Þorláks sylfursmids Grímssonar, Eiríkssonar, og med henni Ásmund og fleira barna. Ásmundur fadir Haldórs Prentara, Prestur til Helgastada í Þingeyjar-sýslu, var Haldórsson [9]), Ásmundssonar. Kristín kona Ásmundar, hvørs fyrr er gétid, var Jónsdóttir Prests ad Hólum í Hjaltadal (þar til hann misti embættid) Pálssonar. En módir Kristínar konu Jóns Prests var Þórun Magnúsardóttir skálds ad Hvammi í Hørgárdal, systir Ásgríms skálds

ad

[7]) Onnur Ættartøl nefna hana Ingibjørgu, og mun þad ecki rjettara.

[8]) Grímur í Vidvík gróf í kopar alla þá meistaralegu stórstafi, fígúrur og málverk, rósir og hnúta, sem sjást í Gudbrands Bibliu, eptir þvi, sem sá allsnotri Biskup sjálfur hafdi á undan med penna dregid.

[9]) Adrir kalla hann Runúlfsson, en hitt mun þó sannara.

ad Höfda á Höfdaströnd, sýslumanns í mörgu. Önnur systir Ásgríms hét Valgerdur, kona Magnúsar Prests á Qviabeck, þeirra son Benedikt Beck, Sýslumadur í Hegraness-þingi, sá er orkt hefir Þórdar-bæna-Psálma og fleira óprentad [10]); en módir konu Magnúsar skálds Þórunnar hét Svanborg. Magnús skáld í Hvammi var Sigurdsson, en módir Magnúsar var Herdís frá Dálksstödum á Svalbardsströnd. Módir Haldórs Prentara, kona Ásmundar Prests, var Kristbjörg Olafsdóttir, systir Haldórs Lögmanns og Klausturhaldara ad Mödruvöllum, Olafssonar líka Klausturhaldara þar, Jónssonar í Búdardal, Sigurdarsonar samastadar, Oddssonar, Geirmundarsonar, Olafssonar Tóna, Þorleifssonar. Vóru allir þessir lángfedgar í mestu höfdingja og ríkismanna tölu vestanlands á þeim tídum. Kona Olafs Klausturhaldara, módir Kristbjargar var Þórun dóttir Benedikts Ríka á Mödruvöllum Haldórssonar Prests og Klausturhaldara þar, Benediktssonar, Grímssonar á Mödruvöllum í Eyjafirdi, Pálssonar, Brandssonar Lögmanns Jonssonar. Qvinna Benedikts Ríka, módir Þórunnar, var Valgerdur Bjarnadottir Þorvaldssonar á Æsustödum (heldur í Eyjafirdi enn Lángadal) og Herdísar Gísladottur hálfsystur Árna á Hlidarenda, nafn-

[10]) Eptir Benedikt Sýslumanni Beck er heitinn Benedikt Prestur Pálsson, bródir Bjarna Landph-

nafnfrægs höfdíngja, Gíslasonar. Qvinna Jóns í Búdardal, modir Olafs Klausturhaldara, var Haldóra eldri Jónsdóttir. Bjarnasonar Prófasts á Melstad, Jónssonar Biskups Arasonar, hvørs lángfedga-tal er ádur rakid.

Eiríkur, fadir Gríms smids í Vídvík bjó ad Lundarbrecku í Bárdardal, hann var Þorvaldsson, Tumássonar en Tumás þann, segja menn verid hafa son Jvars ens Fundna [11]. Kona Eiríks á Lundarbrecku, módir Gríms smids, var Herdís Grímsdóttir, systursonar Hálfdánar Prests ad Þaunglabacka í Þorgeirsfirdi. Módir Sigrídar, kona Gríms í Vídvík, var Ingibjørg Olafsdóttir bónda í Krossavík austur.

Fyrrnefndur Ásmundur Haldórsson, ólst fyrst upp med fødur sínum Haldóri Prentara á Ingveldarstødum; qvongadist sídan, sem ádur

B er

[11]) Adrir segja Tumás Jónsson, og þann Jón son Jvars, en því var hann kalladur Jvar Fundni, ad þegar nýafstadinn var svarti daudi, ferdudust 2 eda 3 sunnlendir menn úr hreppum nordur Gásasand, (sem nú er Sprengisandur, en ecki Bárdargata eptir sumra meiníng, því hún lá ofan í Fljótshverfi), þeir komu sunnan í Bárdardal, og fundu í allri þeirri sveit, sem víst er 2½ kirkjusókn, enga manneskju lifs eptir, nema þennann Jvar einn, þá ýngling á Bjarnarstødum, er fjøldi fólks fyri nordan, og miklar ættir frá hønum komnar, og kallast þad Jvars ætt.

er drepid á, Kristínu Jónsdóttur, sú þá var eck'a, búandi á Kálfsstødum, bjuggu þau þar um hríd, uns þau færdu bú sitt ad Sjáfarborg í Skagafirdi, fæddist þeim þar, árid 1683, dóttir, sú vatni var ausin, og nefnd Sigrídur. Eptir þad bjuggu þau á Backa í Vidvikursveit, og seinast á Brúnastødum í Fljótum, hvar hann misti konu sína, og færdist sídan eckjumadur ad Mývatni nordur, qvongadist þar á ný Unu, módur Jóns Prests á Skútastødum vid Mývatn, Sæmundssonar, aldradri eckju, en ad andadri henni, veik hann til Sigrídar dóttur sinnar, sem þá var og eckja ordin, og bjó á Upsum, hvørs sídar mun minnst, og deydi þar um veturinn næst eptir, ár 1732, há-aldradur; var Ásmundur mesti útsjónar,- sýslanar- og framqvæmdar-madur ad allra rómi. Víkur nú þángad, sem fyrr var frá horfid, ad Sigrídur vox upp med foreldrum sínum á Sjáfarborg um 2ja ára tíma, þar eptir á Backa í 3 ár, sídan á Brúnastødum samfeld 12 ár, og bar þad saman, ad þá hafdi Páll Prestur, hvørs ádur er gétid, þjónad á Hvanneyri í Siglufirdi 3 ár, er í eitt dró ástir þeirra Sigrídar, og var hún þá 17 vetra, en hann 4 um þritugt, er þau áttust; lifdu þau saman í kjærleikum á Hvanneyri í 12 ár, en þá er Páll hafdi þar Prestur verid alls 15 ár, fékk hann stadinn Uppsur [12]) á

[12]) Uppsur accusat. plural. af Upps, fæm. sing. klettótt hæd.

á Upsaströnd vid Eyjafjörd hvar hann þjónadi til dauda-dags, sem innfell í Februarí mánadi, árid 1731, þá hann hafdi 5 vetur um 60, Klerkur verid á 35ta ár, og í hjónabandi 31. Bjó Sigrídur þar eptir 1 ár á Upsum, sídan á Karlsá í sömu sveit í 12 ár, og seinast ad Höfda á Höfdaströnd í 10, hvar hún deydi 26ta dag Maí mánadar 1754, á 71ta aldurs ári [13]). Áttu þau hjón 16 barna samah, hverra

B 2 12

[13]) Líksteín, 3 íslendskar álnir á lengd, 1 danska alin á breidd, og ⅙ alin þykvann, hefir Bjarni útverkad settann yfir módur sína, í Höfda kirkju, med þessari áskrift:

Hér. undir. hvílir.
gód. kona. og. gudrækin.
vitur. og. vinsæl.
gjöful. og. géstrisin,
SIGRIDUR. ASMUNDS. DOTTIR.
qvinna.
Síra. PALS. BJARNA. SONAR.
Prests. ad. Hvanneyri. og. Upsum.

Hún. lifdi. XVII. ár. ógipt.
enn. XXXI. ár. í. hjónabandi.
fæddi. hún. bónda. sínum. XVI. börn.
lifa. nú. IV. synir. og. VIII. dætur.
öllum. þeim. kom. hún. til. einhvörs. þroska
og. andadist.

ár

12 nádu fullordins aldri, og þókti furdu mikid adqveda framqvæmd og hamíngju Sigridar í því, ad koma bernum þeirra til menta og menníngar, einkum sonunum, þar mørg vóru kornúng þegar fadir þeirra deydi, en audlegd ecki mikil; er þad jafnvel í søgur fært, ad hún skyldi þad á einhvern merkis-mann, sem qvonfángs leitadi vini sínum til einnar af dætrum hennar, ad hann skyldi útvega einum sona sinna ølmusu-skóla á Hólum, ætti sá rádahagur ad fullnast, hvad og skédi; enda er vidbrugdid ydjusemi hennar og ødrum skerúngskap á heimili, einkum snyld og náqvæmni ad venja svo mørg, og ad vonum lífleg børn, sér og þeim til sóma. Hún var kona sérdeilis trúgód og vonhreſs, á hverju einkum bar í hennar eckju-standi, þá hún eckért fyrir sér virdti, ad taka ad sér, ofan á fjølskyldu sína, og fæda á heimilinu uppgéfna karla og kerlíngar, og þar á medal, auk fødur síns, sem ádur er nefnt, Prest nockurn útlifadann, allt til dauda hans, þó honum legdist árlega lítill styrkur nockurr af ølmusu-peningum. Frá því er skírt, sem markverdu,

ár. MDCCLIV. dag. XXVI. Maí,
á. LXXI ári, aldurs. síns.

---

Ordsqv. B. 10.
Erfidi. þess. hins. réttláta-
stefnir, til. lífsins.
en. ávöxtur. hins. illa.
til. syndarinnar.

verdu, ad á tvítugs ári var hún í kyrkju leidd ad 3ja barni sínu, sama árs-dag og hún var fædd á. Skorp var hún mjøg ad náms og vitsmuna-gáfum, fállega hagmælt, gladlynd, rædin, skémtin, og svo minnug, ad hvørn hlut, sem í tal bar, edur um var-høndlad, þá var í hvørt sinn hjá henni og til reidu undir eins nockur dæmissaga edur vísa þar uppá.

Børn þeirra Páls Prests og Sigrídar vóru 16, hvørra 4 vóru fædd fyri Stóru-bólu, sveinar 3, sem kornúngir dóu úr bólunni, hétu þeir Bjarni og Jón, en nafns eins 3ja er ecki gétid, og mær ein ad nafni Kristín, sem lifdi fram á sextugs aldur, og giptist ecki; eptir Stóru-bólu fæddust þeim hjónum:

1.) Asgérdur, sú er giptist Magnúsi Presti Péturssyni á Upsum nærst eptir fodur hennar þar, sídan ad Miklagardi í Eyjafirdi, seinast, og þad lengst, á Høskuldsstødum; áttu þau saman, fyri víst, 12 børn, hvørra 8 hafa lifad til skamms tíma, eins og Asgérdur sjálf, eckja yfir nírædt, ecki karlæg þá, er menn vissu seinast til.

2.) Philippía, sú er giptist Hjálmari Erlendssyni, gáfumanni fjølhæfum, og læknir gódum á þeirri tíd, áttu þau saman nockur børn, hvørra 4 enn þá lifa, og medal þeirra merkis-mennirnir, Páll Skólameistari og Haldór Heyrari vid skólann á Hólum, bádir hálærdir, en Hjálmar og kona hans eru fyri laungu burtsofnud.

 3.) Pál-

3.) Valgérdur, sú er giptist Þorvardi Presti Audunarsyni ad Saurbœ vid Hvalfjörd, þau áttu ecki barna, bœdi fyrir laungu dáin.

4.) Gunnar, sá fyrst var Djákn ad Múnka-þverá í 3 ár, Skólameistari þar eptir á Hólum í 11 ár; má þad honum til verdugrar æru telja, eins og gjørt hefir Magnús Sýslumadur Kétilsson einhvörsstadar, ad hann kénndi þar, med sóma og heidri, 3ur brædrum sínum og dímittéradi þá. Sídan var hann Prestur ad Hjardarholti i Dölum og Prófastur þar í 32 ár, deydi á Reykhólum eckjumadur, ad afiagdri klerklegri þjónustu, á 78da aldurs âri 1791. Konu átti hann, Margréti Erlendsdóttur Prests fordum á Qvíabeck, og med henni einn son, er Páll heitir, og nú er Prestur til Hvols og Stadarhóls í Dala-sýslu, einn þeirra brúdlausu brúdguma, hvörra þessar skrifnu tídir framvísa oss nockra. Gunnar Prestur var madur hálærdur, og forkunnar skáld; lagdi hann sig einkum eptir nordurlanda fornfrædum, og var engu sídur ad því frægur utan enn innanlands, þar fornfræda-stiptanin eptir Arna heitinn Magnússon í Kaupmannahöfn, og fleiri þar, brúkudu hann lengi til ad rata fram úr myrkvidrinu í Sæmundar-Eddu og ødrum forn-qvedskap. Saga hefir gjørd verid af minni manni!

5.) Bjørg, sú er giptist Einari Þórdarsyni, þá Presti og eckjumanni á Tjørn í Svarf-

adar-

adardal, og ſídan 1754 ad Hvammi í Dala-ſýſlu. Var hún talin líkuſt kona módur ſinni, og þókti takaſt vanda á hendur, þar ſem Einar Preſtur var og módurlaus børn hans, hann ſjálfur úeyrinn, vid øl, á hvørju ſídan eckert hefir borid. Þau hjón eru nú háøldrud, hún hálf-níræd, og legſt í kør fyri nockrum árum, Børn áttu þau 4, hvørra 3 enn þá lifa.

6.) Þórun, ſú er giptiſt Páli Haldórsſyni Biſkups, dáin fyrir laungu barnlaus.

7.) Solveig, giptiſt ſkírum bóndamanni, og um tíma Løgſagnara, Hallgrími Þórisſyni af Preſta-kyni; áttu þau hjón ſaman 1 dóttur Solveigu, ſem kona er Þorgríms Múrara á Ellidavatni, en Solveig módir hennar er fyrir nockru dáin.

8.) Bjarni, af hvørjum ſaga þeſſi rís, og ſídar mun gétid.

9.) Kriſtín yngri, ſú deydi á 16da aldurs ári ad Karlsá, hjá módur ſinni eckju, var ſérlegt afbrygdi ad gáfum, eins og Kriſtín, ſem eptir henni var heitin, Hjálmarsdóttur og Philippíu, en bádar veiktuſt á ſama hátt fáſédum veikindum.

10.) Benedikt, ſá var fyrſt Djákn á Múnkaþverá $2\frac{1}{2}$ ár, ſídan Preſtur ad Miklagardi $14\frac{1}{2}$ ár, þar eptir Kapellán ad Hvammi í Dala-ſýſlu 3 ár, ſvo Préſtur ad Trøllatúngu í Stranda-ſýſlu 5 ár. Seinaſt vard hann 1772 Preſtur ad Stad á Reykjaneſi í Bardaſtrandar-ſýſlu, hvar hann enn þá lifir

75 ára gamall, ætíd nockud grár í lund [14]), en nafnfrægur ad saung-kunnáttu framyfir alla hér nú á dogum. Sídan 1789 eckjumadur eptir Valgérdi Jónsdóttir, og vard þeim ecki barna audid.

11.) Ásmundur, sá var fyrst Diákn á Þíngeyrum nockur ár, þar eptir Prestur ad Hólum í Blöndudal, og seinast lengi ad Audkúlustødum, hvar hann enn þá þjónar 73ja ára, fyri laungu eckjumadur ordinn, eptir Helgu Jónsdóttur, þau áttu ecki barna.

12.) Steinun, sú giptist Bjarna Presti Péturssyni á Melstad, og áttu þau 2 børn saman, Pál Prest á Undirfelli, og Ingibjørgu konu Páls Skólameistara, í hvørs húsi Steinun enn þá lifir á sjøtugs aldri, eckja.

Nú víkur søgunni til Bjarna, og var hann fæddur ad Upsum á Upsaströnd í Vadla-sýslu um vorid á Pancratius's dag, sem innfellur 12ta Maí, árid 1719 [15]). Þá var hann ecki fullra 12 ára, er fadir hans létst, rádstafadist hann þá burt frá módur sinni haustid nærsta eptir, edur 1731 í Octóber mán. vestur ad Stad í Hrútafirdi, í fóstur, til fødur-bródur síns Gudmundar Prests Bjarnasonar, byrjadi hann þar látinu

[14]) Svo lýsir Benedikt Prestur sjálfum ser.

[15]) Ad þetta ártal se rett, má sjá hjer eptir af skóla testimonio Bjarna, útgefnu af bródur hans Gunnari Presti.

látínu lærdóm og var þadan seldur til læríngar í Hóla skóla um haustid 1734, var Meistari Steinn þá Biskup, Sigurdur Vigfússon Skólameistari, en Þóroddur Þórdarson Lócator. Vorid nærsta eptir fór hann frá Skólanum vestur aptur ad Stad, og var þar þad sumar, en ad lidnum nærsta vetri veik hann frá skólanum til módur sinnar alfari, og var hennar fyrivinna úr því bædi á Karlsá og Høfda, þókti henni mikid vænt um son sinn, er hann var mjøg eptir hennar gédi, rádgjerda-, framqvæmda- og útréttingasamur, samt frískur og eruggur til lands og sjóar, var hann á sumrum formadur fyrir hákalla- og fiski-báti hennar, því bædi Karlsá og Høfdi liggja fyri þeim útvegum; sýndi þad sig opt sídan á hans mørgu ferdum til lands og vatns, ad hann hafdi bestu greind og atorku til hvørstveggja.

Í úngdæmi sínu var Bjarni af náttúru brádþroska, brádgjørr og brádlyndur, heilsuhraustur, frískur og framgjarn, vildi hann gjarnan í hvørjum leik géta verid sá frægasti; hann vildi, — til dæmis ad taka — læra sund-list, var þá enginn í því plátsi, er hana kynni, tók hann þá þad rads, ad stífla upp læk einn í laut nockurri, batt sídan 5 potta kút á brjóst sér, en Gunnar bródir hans, nockru ellri, hafdi á honum snæris-vad til vara; komst Bjarni þannig í sund-list, ad fleytt hefdi sér gétad yfir Hérads-vøtn edur medallagi breidt vatnsfall. Reyndu þeir sig eitthvørt sinn, þá er leyfi gafst í skóla, hann og Einar Þórdarson, er sídan vard Prestur og mágur hans, sem ádur

er sagt, í Hjaltadals-á; Bjarni busladi og fór hardt, en Einar allt hægar, og héldu menn hann heldur lærdara. Svo er sagt ad Bjarni þegar á ýngri árum, er hann var fyrivinna hjá módur sinni, væri herra-lundadur og drottnunar-gjarn, og fannst þad einkum systrum hans, sem þá vóru heima, bar líka á því í skóla, ad hann var rádgjarn, komst og fljótt í hávegu þar og embætti. Hann var skrautgjarn, og eins og hann hafdi rád og framqvæmd til, þá þegar skóli var settur á hverju hausti, var ad vikú lidinni fallegasta mussan og snotrasta húfan komin á hann Bjarna. Hann vildi og gèta verid þar fremstur ad íþróttum, tókst honum og mikid þarí. Ecki var hann ad kreptum nema rétt medalmadur, samt tókst honum stórmikid í glímu, og í bita-leik yfirgèck hann alla, krækti hann ristum á bita, og hèck höfud nidur, klæddist þannig úr mussu, las sig svo upp aptur, og gjørdi honum þad þá enginn eptir. Ecki er trútt um þeir brædur Bjarni og Benedikt væru ei haldnir, á skóla árum, fjørmiklir og glettnir, enda brast þá ecki ad finna uppá sitt í hvørt sinn og fylgja fram, sèr og ødrum til hagnadar, þegar vidþurfti [16].

Brádt

[16]) Getid er þess í skóla-kroníkum, ad þegar Sigurdur Skólameistari Vigfússon, hvørs støku einfeldni og audtrúleik velgáfud og leikfull úngmenni (eins og þeir Pálssynir vóru) kunnu vel ad nýta sèr, komst ad því, ad piltar minúerudu; eins og þar

Brádt fannst þad í náttúru Bjarna, sem síðan vard raun á, ad hann var fæddur til Lækn-

þar kallast, edur dróu af Lexíu sinni, tók hann sér blýant, og skrifadi Lexíurnar. Bjarni var besti skrifari í skóla á þeirri tíd, og lagdi fyrir sig ad rita þar Lexíu-qver, sem gengid hafa þar til skamms tíma, vóru þau vel, greinilega og rett skrifud, framar margra annara, sem alkunnugt er; hann gat vel breytt eptir skrif-hendi Sigurdar, komst í þetta, og afmádi þad Skólameistari skrifad hafdi, en setti nýtt aptur eptir þörfum og ástandi, hafdi þá sama Lexía gengid tídum í viku, edur sem verkast vildi. Hjer vid eiga skyldt þær svo nefndu Leka-liberatiónir á vetrum, þá piltar vóru tæpir: fóru þá einhverjir árla á fætur, fengu sér vatns-fötur, í hörku frostum, og helltu inn á skóla-gólf; þegar Skólameistari hafdi vakid, kom þjenari hans fram, og tjádi honum ófært ad sitja inní skóla í hörkum, þar svo hefdi lekid mikid í nótt, ad standa mætti í vatni undir kne, skyldi þá Sigurdur hafa sagt, þá hann leit inn í skólann: þad er sljett af so gú, (þetta vóru hversdags talshættir hans) óforsvaranlegt, ad láta gódra manna börn sitja í slíku hross-húsi! Í þesskonar smábrögdum, sem ætíd audkenna gáfumanns-efnid, se rett medfarid, er sagt þeir Bjarni ætt hefdu nockurn hlut, eins og hinu: ad þegar fyrst var innleiddur Ponti í Hóla-skóla af Visitator og Biskupi Harboe, vildu piltar assegja hann, og færa Bisk-

npi

Lœknis-listar; á fyrsta edur edru ári hans skóla-dvalar tilféll honum fótarmein eitthvert, svo hann lá um hríd rúmfastur undir grǽdslu Þorgeirs Rádsmanns á Hólum, bródur Steins Biskups; tók Bjarni æ þar eptir ad vilja jafnan eiga sér plástur, og þegar einhverr pilta meiddist nockud svo ad bláuadi, edur kúla hlypi upp, þá var Bjarna þad yndi ad fást þar nockud vid, hegg-va þarí, og leggja plástur yfir, utlistadi hann snyldarlega, fyrir enum sjúka, hvílíkt íllmein úr þessu kynni verda, nema í tíma væri adgjört. Eins má og géta, sem ad þessu lýtur, og á tvsfald-ann hátt er mikilvægt: Ásmundur bródir hans tók blód-uppgáng svo mikinn og opt, þá er þeir gengu í skóla, ad srvænt var um líf hans, og eckért dugdi, sem reynt var, fann Bjarni uppá ad géfa honum inn Rjúpnalaufs-seydi, og grœddi þad hann ad fullu, enda bar Bjarni æ sídan nockurskonar hugþócka til Hármeyjar sinnar [17]).

Ad

upi aptur, er þá sat ad Hólum, en þar til hafdi enginn árædi fyrr enn Bjarni, er sagt hann bund-id hafi alla skóla-pontana í bagga med hnappheldu utan um, lagt baggann á herdar sér, og fært Bisk-upi, sem áleit þetta únggjædis glettni, jafnvel hug-prýdi, enn varmennsku enga, og var svo lángt frá ad sá gódi madur erfdi þad vid Bjarna, ad þessi átti í hinum mikla sjod, þá er hann reisti utan.

[17]) Svo finnst ritad í sendibrefi Bjarna til Hannes-ar Skálholts Biskups 20ta Janúarí og 5ta Marsí

Ad ødru leiti var tilburdur þessi markverdur í því, ad sú happasama grædsla ersadi mieg svó, jafnframt ødru, Bjarna til utanferdar og meiri æfíngar í Læknis-list, hvørs sídar verdur gétid. Ecki finnst, ad hann færi med æda-blódtøkur, fyrr enn seinasta vetur hans í skóla, en færstir vóru

Martsí 1779: „Mjøg gledst eg þess, ad Ydur „kemur vel saman vid Rjúpna-laufid, því þad er „ætíd mikils verdt, þegar slíkar Persónur, eink„um á svoddann mannfjølda- og adsóknar-bæ, sem „Skálaholt er, nytja andfengin indigena! — „Holta-sóley, Hár-mey, Rjúpna-lauf (Nb. Holta„sóley kallast hún, medan stendur í blómstri, Hár„mey, þegar Bidnkolln-toppurinn snýst og stend„ur upp, og gefur nafn þad mjer anleidníng ad „þenkja qvennfólk, einkum Jomfrúr, í gamla daga, „hafi typpt hár sitt; þad adsirúerar og búníngur „Þórs í Hamars-heimt, þegar Æsir hóglega „um høfud hans typtu, til hvørs guddómlega „verks vid skulum ætla ecki hási verid kastad hønd„um, enda lá þá á, þó er ecki ørgrannt ad topp„ur sá hafi skeckst, þegar hann hamar sinn aptur „of heimti, og hann Þrym drap fyrstann þursa „drottinn, en Rjúpna-lauf nefnast blødin, því á „þeim og litlu Blódbergi hærast þær mest, en oss „er alkunnugt, hvad hreint og smeckgott Rjúpna„kjøt er). Linnæus kallar hana fyrstur allra Dry„adem, â deabus quercuum ob pulchritudinem. — „Er urt sú í sannleika gott diaphoreticum og di„ureticum, líka blódhreinsandi."

vóru þeir af piltum, er gáfu um þvílíkar lækn-íngar, en strax, sem Bjarni var 1 ár á Höfda, ad endadri skóla-dvøl, ad þar líka í sambýli ver-anda mági hans Hjálmari, gódum, heppnum og reyndum lækni, sem ádur er sagt, og hann fengid hafdi nockrar látínskar læknis-bækur eptir sáladann Þorlák Markússon í Gröf, tók hann med alúd ad stunda þá frædi og æfa sig í henni, uns hann loksins reisti af landi burt, hvørs seinna mun minnst; er þess getid, ad hann skæri stórt æxli af Egli nockrum veturinn 1746, og um vorid opnadi og græddi kinnar-mein á stúlku, sem Helga hét, má líka finna, ad hann hefir þá fleiri medel enn plástra eina medfarid, svosem: Camfóru, Terpentin-olíu, og þessháttar. Bjarni hefir og strax í skóla hendt reidur á, og haft edli med allt hvad markverdt var í náttúru-vísi, og því tekid fyri sig þá lofsverdu en um of sjaldgæfu ydn og reglusemi, ad teikna í Almanak sín allt þad hann vissi vidbar og minnis var verdt; medal annars finnst vid árid 1745, ad á Ner-hóli í Eyjafirdi fædduft um sumar-mála-leiti tvíburar, grónir saman á bríngunum og lífinu, vóru skírdir Gudrúnar, og lifdu fram á sumar. Sá frægi Haller hefir ritad lánga skrá um ann-ad eins, sem þó ad því leiti var markminna, ad tvíburar hans vóru daudir er þeir fæddust [18]) Líka hefir hann ritad hvenær Halastjarnan mikla sást þar nordur fyrst og seinast árid 1744, nefnil. 9da Janúari og 25ta Febrúari; lát merkis-manna,

[18]) Sjá hans Opuscula Anatomica.

manna, vedurfar, og miklu fleira þvílikt. Hefir hann byrjad þessa hrósverdu ordu ár 1743, og haldid henni þar til 15 dögum ádur hann andadist 1779.

Drepa skal á þad, ad medan þeir brædur Pálssynir vóru í Svarfadardal, héllt Vallnastad Ejúlfur Prestur Jónssonr, nafnfrægur lærdóms-madur, einkum í sagnavísi og fornum frædum, tjáist hann hafi verid breytilegur nærsta í háttsemi, og ödruvísi enn fólk er flest; er ecki ólikt þeir brædur hafi haft stórt gagn og gaman af Presti þeim, mun ei örvænt ad hermt hafi lika eptir honum gladlyndir menn á þeirri tíd, og ecki er þess þrætt, ad Bjarni hafi eptir honum hendt fjer-kippi þá, er hann tók stundum vid öl, en þar Ejúlfur Prestur var allur í vísindum, er enginn efi, ad veigáfud og eptirtakasem úngmenni hafi borid þadan mikid gott frá bordi, og lengi skrifudust þeir á, Gunnar Pálsson, medan hann var Skólameistari, og Ejúlfur Prestur, um lærd efni.

Nú mætti virdast, sem Bjarni hafi nærsta gáfulitill verid, þar hann, sem ádur er mælt, var settur í skóla haustid 1734, en skrifadist ecki út þadan fyrr enn 1745; en bædi var þad, ad jafnvel þó Þóroddur Lócator finndi hann gáfadann, og ræki ad því skapi eptir honum, er likast honum hafi litid framfarid undir Sigurdi; eins og á er vikid ad framan, allt til þess, ad Gunnar bródur hans vard Skólameistari; þegar hann kom til, sjálfur gagnkunnugur, dugdu ei léng-

ur

ur smábregd og útúrdúrar fólks, var þá annad-hvert ad hrekkva edur stekkva, og segja þad kunnugir, ad þá hafi strax sú umbreyting ordid í skólanum, sem ótrúleg hefdi synst vid eins manns komu, og þad þess, sem átti þá 2 eda 3 brædur í skóla, enda heyrdist þad opt á Bjarna sídan, ad aldrei mundi hann reglulega úr skóla hafa komist, nema bródir hans hefdi vid stjórn tekid. Líka vóru fleiri orsakir til ennar laungu skóla-veru Bjarna, svo sem þessar: a.) tókust á þeim tímum margir, jafnvel flestir drengir svo í skóla, ad harla lítid höfdu í látínu lært, og því enga látínu-lyst fengid; já, þá komu nockrir svo þángad, ad ecki höfdu látínskann bókstaf sjed. b.) Stód skóli þá opt um stuttann tíma; settur var hann jafnan 2 dag Nóvembr., en sagt upp aptur stundum í Þorra-lok, stundum Góu, og s. fr., sjaldnast nadi haun sumar-málum, allt þángad til Gunnar tók vid. c.) Gaf Bjarni sig, sem ádur er sagt, til ad skrifa lexíu-qver fyrir pilta, haidi þaradauki eitt og annad ad sysla, af náttúru syslanargjarn.

Bjarni dímitteradist þá, eptir 11 vetra skóla-veru, þann 1ta Júlí 1745, undir eins og Jón Vídalín, er sídan vard Prestur og Prófastur í Eyjafirdi, fadir Geirs Vídalíns, sem nú er Skálholts-stiptis Biskup [19]). Var Bjarni þá

[19]) Bjarni feck fyrir Dimissions-texta, Jer. III- v. ultim., en Jón Vídalín, Jer. III, 22. En svo-hljód-

þá með móður sinni á Höfða þau missiri, og æfði sig nockrum sinnum í prédikunar-stól, samt
C leysti

Hljóðandi skóla-lausnar vitnisburð gaf Gunnar Skólameistari bróður sínum Bjarna, sem eptir-fylgir:

*Lectori Salutem!*

Excutit tandem pulverem scholasticum, per Undecim annos contractum, ipse annum ætatis agens vigesimum sextum, BIARNIUS PAULI Filius. De hoc, tanqvam fratre, vera tamen dicere, nihil prohibet, & muneris ratio postulat. Est itaqvè primum ac præcipuum, qvod cum puerilibus annis, nucis etiam, & id genus alia, reliqverit, adeo ut non obstante ante acta vita, qvæ certè omni turpitudinis nota caruit; sed imprimis respectu præsentis Status ac conversationis, pro honesto Studioso meritò haberi qveat. Qvinimo si ad virilem qvandam maturitatem eum pervenisse dixero, nihil falsi in verbis meis deprehendi posse confido. Hæsit qvidem benè diu intra parietes scholares, id qvod ingenii defectum arguere videtur, qvem nec omni ex parte planè abnuo, sed longè plures, nec minores causas, simul adfuisse assevero, qvas hic recensere nihil attinet. Compensabit etiam longam exspectationem, laboremqve ac sumptus in ejus informationem impensos, satis felix profectus, tam in latinis & græcis, qvam theologicis præsertim, nimirum Biblicis, Catecheticis & Systematicis, qvibus etiam

leysti af hendi venjulegt Stúdenta próf, en um Nýárs-leiti 1746, fór fyrst fyrir alvøru ad bera á utanfarar-girnd hans, reit hann fyrst áſetning þann, bródur ſínum Gunnari Skólameiſtara, þann 4da Janúarí, og ad gjørdu rádi vid módur ſína og adra frændur, flutti hann varnad ſinn til ſkips, er lá í Hofsár-ós, frá Høfda, þann 27da Septembr., hafdi Stephán Bjørnsſon, ſídan nafnfrægur Mathematicus og Landmælari í Kaupmannahøfn, og ný-dáinn þar, tekid ſér far med ſama ſkipi, og létu þeir í haf þann 1ta Octóbr. fyrrnefnt ár, gjørdi fyrſt mótbyri, ſvo þá hrakti nordur í Grænlands-haf, og lagdiſt Bjarni um þær mundir nærſta veikur, tók hann ſér þá ſjálfur blód, og var þad undir

tiam Hiſtoriarum Eccleſiaſticæ & univerſalis, nec non Arithmetices atqve principiorum Logices ac Phyſices (ut eſt imprimis Medicinæ deditus) aliqvam adjunxit notitiam. Prævio igitur legitimo examine, ac Concione ſacrâ publicè habitâ, liberum ac legitimè dimiſſum pronuncio; Qvod nomine ſubſcriptô & ſigillô infra appoſitô palam teſtor Holis ad diem XXV Junii anno ſalutis MDCCXLV.

GUNNARUS PAULI F.
Sch. Hol. h. t. Rector,
(L. S.)

Veritatem vel ad litteram Apographi teſtor
P. HIALMARIS.

undir eins ad hann hresstist, og vindar giørdust hagstædir, er ecki sagt af ferdum þeirra, fyrr enn þeir tóku land vid Kaupmannahøfn, þann 28da s. m., var þar þá fyrir Jón Vídalín, nýkominn, og láu þeir Bjarni saman nærstu nótt, en sídan urdu þeir Stephán Bjørnsson legunautar um hríd. Þann 8da Decembr. s. á. tók Bjarni fyrsta lærdóms-próf, og var inntekinn í Stúdenta-tølu vid Háskólann, en Klaustur fengu þeir Stephán bádir, þann 31ta s. m. Regents fécк Bjarni árid eptir, þann 2ann Maí, tók hann þá fyrir alvøru, auk enna philosophisku vísinda, ad dýrka læknis-líst, náttúru-vísi, urtafrædi og adrar greinir náttúru-historiunnar, hvørju hann stødugt áfram héllt í nærstu samfeld 4 ár. Þann 5ta Júní 1747 gjørdi hann, ásamt fleirum, sína fyrstu Urtasafns-ferd (excursio herbaria) út um Sjáland, og sídan hvørt sumar hann dvaldi þar, tvisvar og þrisvar í viku hvørri. Hafdi hann þessi 4 ár fyrir kénnendur: Ziegenbalg í Mathesi applicata, optica og þessháttar; Scheid og Testrup í Philosophia; Horrebow í Stjørnu-vísi; og Jústitsrád Detharding; var hann fyrsti lærari Bjarná í Læknis-líst, uppørfadi hann eins og fadir, og kom honum til ad offra sig allann Læknis-gydjunni Hygienu, en deydi af brotfalli, þann 23ja Octóbr. 1747; og þrádi ætíd Bjarni hann mjøg. Nærst Detharding var hans hellsti og drjúgasti kénnandi, Etatsrád og Prófessor Búchvald, bædi í anatómiskum, medicinískum og yfirsetukónu-frædum,

um, lagdi hann fyrstur grundvoll hjá honum í Urtavísi, eptir gamla mátanum, sem mest kénnisteikn grasa tekur af blødum, rótum og þesshátt-ar, enda var Bjarna allopt sídan tamt, ad bregda til gamallar hækju med þad, hafdi hann allt af Bauhin, eins og vera mátti, í hávegum, og var lengi frameptir tortrygginn vid Linneé en þad lagfærdist sk ótlega, þá hann var ordinn initiatus sacris systematis sexualis. Um þann náqvæma kunníngskap þeirra Bjarna og Büchvalds, verdur sídan meira talad. Af Prófessor Lodberg Fris lærdi Bjarni materiam medicam, og ad skrifa Recept, var og vel af honum lidinn; þó hafdi hann meira athvarf hjá Director Chirúrgiæ Henningsen, og af honum nam hann Handlækna-líst. I Brædslu-frædi og Próbier-kunst sókti hann þá frægu menn Kratzenstein, og Kappel Apótekara, med hvorjum, hellst Kappel, hann virladi bréfum til dauda-dags. Auk þessara, heyrdi hann bótaniskar undirvísanir hjá þeim merku mønnum: General Adjutant von Osten, hvorr sérdeilis var samríndur Bjarna, géck út med honum í urta-ferdir hvort sumar, og kénndi honum þar hjá Physicam experimentalem, skrifudust þeir á æ sídan medan lifdu; Hólm frá Fjóni, sem sídar vard Prófessor í Bótaník; Dr. Oeder, sem byrjadi þad mikla urtasafns-verk, Flora Danica, en fécк bága útreid sídan; Dr. Ascanius frægum Náttúruvitring, og nú Prófessor vid Lund á Skáney, nam Bjarni undir eins af þessum hinar greinir

nátt-

náttúru-frædinnar; sérílagi uppfræddi Zeuermann hann í anatomiskri og chirúrgiskri vísi; héldu þeir um hríd, vissa tima dags, samrædur í þjódversku- og látinu-máli, og vóru nærsta samrindir, svo ad Bjarni var hans opponens ordinarius, þá er Zeuermann gjördist Doctor Medicinæ. Franskann Sprokmeistara hèllt Bjarni lengi vetrar; var vid allar Apóteks-Visitatiónir, sem framfóru medan hann þar dvaldi, og undanfeldi ekkert þad, sem hann þurfti med til sinnar mikilvægu áqværdunar.

Ár 1747 þann 3ja Septembr. ferdadist hann med fleirum út til Fridriksborgar, og sá þar uppá krýningu Fridriks Konúngs ens Fimta. Ár 1748 þann 1ta Júli, vard hann Philosophiæ Baccalaureus, undir eins og Eggèrt Olafsson, sem sídan vard reisu-bródir og félagi hans. Þessa árs vetur tók Bjarni fyrst heim til sín, lík til uppskurdar, og sídan hvœrn vetur upp þadan. Sama ár komst hann í kunníngskap vid Greifa Rantzau, og gaf honum, ad bón hans, skirslu um Péturs- edur Barna-moldina í Islandi. Ár 1749 fèck hann Walchendorphs Collegium, þ. 19da Maí, var þar hellst vinur hans Norski Hólm (svonefndur til adgreiníngar frá Fjónska Hólm, hvers ádur er gétid), sem sídar vard Landmælari vid Landamerkja-Commissiónina á Kili, milli Norvegs og Sviaríkis, og þar eptir Prófessor í Mælikunstinni vid Kaupmannahafnar háskóla, en dó ádur hann yrdi virkilegur. Áttu þeir Bjarni margt saman, og vóru

hvorr annars Opponens vid Dispútátsíur. Þetta sama ár fór Bjarni fyrst opinberlega ad praktísera erlendis, og var það Storm nockurr, sem hann fyrst þág af grædslu-laun þar, 1 krónu. Vid Apótekara Günther kom hann þá og í kunnleik, og útvegadi honum íslendskar urtir handa Prófessóri Bótanices í Berlín, adseturs-stad Preussa-Kóngs. Líka vard hann þá kunnugur nafnfrægum Presti og Náttúru-vitríngi Jacobæus til Lideyjar í Sjálandi, ferdudust þeir opt sídan hvorr til annars, skodadi Bjarni hans töluverda náttúru-safn, og bótaníseradi þrátt med honum, skrifudust þeir og á sídan. Þann 31ta Octóbr. s. á. hélt Bjarni sína Dispútátsíu de Alga saccharifera, sem ádur var censurerud af Búchvald, kostadi hún hann rúma 8rdli., og féck hann Scheels Stipendium fyrir það. Það var og þetta ár, ad Bjarni komst inn hjá þeim lærda Prófessor Mølmann, ritadi Bjarni þá fyrst fyrir hann edur samantók, skirslur einhverjar yfir nockrar sýslur á Íslandi, einkum Nordur-sýslu, var í mikilli gunst hjá honum sídan, jafnvel opponeradi honum 1758.

Árid 1750, var á margann hátt merkilegt fyrir Bjarna, og undirbjó það, sem æ sídan frævar minníngu hans. Fyrst um veturinn fengu þeir Eggert Olafsson beidni af Mølmann, og Dr. Hauber, sem var Bóka-vördur Kóngs, ad gégnumfara og gjøra registur yfir bækur á Universitetsins Bóka-sal, leystu þeir það vel af hendi, og vann Bjarni þarvid mikla hylli af

Hauber;

Hauber; um sama leiti vard hann kunnugur tveim Þýdskum Vísinda-mønnum, sem ferduðust um lønd til æfingar sér og lærdóms-frama, hétu þeir Joh. Chr. Tegetmeier, og Petr. Samuel de Chaufepie, ritudu þeir nefn sín til endurminningar hvørr hjá ødrum, og skildu med kjærleikum, en senduſt sídan á ýmsum náttúru-gripum og ødru sjaldfengu. Þad bar enn til um vorid sama, ad Bjarni og Eggért vóru kjørnir af þeim Mølmann og Hauber ad ferdast til Islands, þess erindis: bædi ad safna náttúru-hlutum, svo sem: grøsum, dýrum og steinum, en einkanlegast fornum bókum, og þvílíku, sem þeim miklu mønnum hugnadist ad geyma á kónglegum Bóksølum, fengu þeir félagar styrk til þess af Legato Arna Magnæano, hvers þeir nutu upp frá því um nockur ár, og líka lagdi Hauber, Bjarna teluverdt úr sjálfs síns sjódi, eins og hann upp frá því var honum sérlega lidveittur, jafnvel skenkti honum peninga nockrum-sinnum, og hvad meira var, sendi Sigrídi Húsfreyju módur hans $11\frac{1}{2}$ Crónu, þá er hann var apturkominn úr þessari ferd, og Bjørgu systur hans 3 Crónur; er líkast þad hafi verid fyrir gamlar íslendskar bækur, sem Bjarni hefir hjá þeim fengid.

Þann 18da Maí, sem var 2ann í Hvítudøgunum, leystu þeir Eggért úr høfnum til Islands-ferdar, høfdu þeir tekid sér fari med Kaupmanni Dreyer frá Vestmannaey, vóru þeir daginn eptir vid messu í Helsíngjaeyri, en máttu

 sídan

síðan sæta mótvindum og snjóæsíngi, og er ecki sagt af ferdum þeirra, fyrr enn þeir sigldu med Hjaltlandi þann 3ja Júní, og adgætti Bjarni þá, ad nætur-byrta var þar um það leiti svo, ad naumlega sá á bók, þegar dymmast var, en þá vóru þeir á 58du Grádu nordurbreiddar. Þann 13da s. mán., lendtu þeir vid Vestmanney, lituðust þar um kríng í 2 daga, og ferdudust síðan til Breidabólstadar í Fljótshlíd, þadan ad Hlídarenda, og uppá Heklu, svo undir Eyjafjøll, þadan útyfir Rángárvelli, Landid og Hreppana til Skálaholts, skodudu Geysir vid Haukadal, fóru því nærst fram um Grímsnes, og Ølfuss út til Geitahlídar, þadan ad Krísuvík, og Ketilsstíg til Hafnarfjardar, þá yfir Mosfells-sveit, og komu á Þingvøll þann 13da Júlí; dvøldu þeir þar viku-tíma ad skoda sig um, fór Eggert þadan vestur um land, en Bjarni til Leirár, þadan yfir Borgarfjørd, Holtavørdu-heidi til frænda sinna á Stad, svo til Þingeyra og nordur á Skaga, skodadi hann í þeirri ferd, Tindastól og Glerhallavík, þadan til Mælifells og úteptir firdi ad Hefda til módur sinnar, høfdu þau þá ecki sjest í 4 ár. Sídan ferdadist Bjarni út í Fljót, yfir Siglu- og Olafs-fjørd, nordur til Grenivíkur, þadan á Húsavík, hvadan hann reit og sendi med Kaupmønnum, þad honum ástotnast hafdi Nordanlands; úr þessum sveitum fór hann upp ad Myvatni, svo Ljósavatnsskard og Fnjóskadal til Eyjafjardar, þadan

ad Hólum í Hjaltadal, og var þá Krossmessa á haust. Dvaldist hann síðan medur kunníngjum og frændum sínum þar um sveitir, til þess 2ars Octóbr. þá hann annad sinn tók sér far med Hofsóss-skipi, sem leysti úr höfnum þann 5ta s. mán. Safnadi Bjarni í þessari ferd miklum fjølda af gamaldags bókum, sem enn má sjá á Háskólans- og Kóngsins stóra Bóka-sal, samt øllu því, er fágætt þókti í ríki náttúrunnar, og sendi fram med Kaupmønnum, skodadi líka alla þá stadi, sem sjónar vóru verdir á leid hans, er þad hvørt-tveggja, ad vær vitum minnst af því, enda væri þad um of lángt ad rekja hér. Hvar sem hann fór, var hann ætíd umkríngdur af sjúklíngum, gjørdi hann þeim øllum nockra úrlausn, en þótt ecki væri hann svo byrgur af læknisdómum, sem þurst hefdi til slíkrar ferdar; en þessi før þeirra Eggérts, bjó þeim samt í haginn, sem dugdi, undir þá sídari, hvørrá brádla mun gétid.

Bjarni vard vel reidfara þetta haust, og greinir ecki af ferd þeirra, fyrr enn þann 15da, er þeir sigldu fyrir Lidandisnes í Norvegi, og orkti Bjarni þann dag qvedlíng, er hann kalladi Hræsvelgs-qvido; sama aptan lendtu þeir í Kleven vid Mandal, og vóru þar til ens 27da, komst Bjarni þar í kynni vid marga, og hèllt sjaldan kyrru fyrir, ópereradi augu á qvennmanni, og fleira slíkt. Þann 1ta Nóvembr. komu þeir til Kaupmannahafnar, var þá Eggért kominn litlu ádur, og vóru þeir Mølmann einkar vel ánægdir med ferd þeirra. Hóf þá

Bjarni á ný sínar lærdóms-ydnir, sem fyrr, og fór svo fram um hríd, ad ei bar til nýlundu, nema hann sagdi i Nóvembr. mánadi lausu Walchendorphs Collegió.

Um Veturinn eptir Nýtt-ár fór ad brydda fyrir alvøru á, hvøriu sæmdar-ordi þeir Eggert komu á sig med Íslands ferd þeirra sumarid ádur; var þad fyrst, ad Greifi Rantzau lét Bjarna gánga í gégnum allt þad, sem Biskup Harboe og Observator Horrebow, sem þá dvaldi enn úti hér, høfdu í frásøgur fært um landid, og sendt Vísinda-félagi Kóngs, fór Bjarni þad allt saman, og gaf sínar meiníngar og athugasemdir skrifadar Rantzau Greifa; nockru sídar kalladi Biskup Harboe þá Eggért fyri sig, og lét þá vita, ad borin væri til eyrna Kóngs fregn um ferd þeirra, og ætladi hann ad senda þá híngad aptur til fullkomnari skodunar allra náttúruhluta, og annars, sem þvílíkar ferdir krefja; tóku þeir því líklega, og fengu svo bréf Kóngs þar um, útgéfid 23ja Apr. s. á., en Vega-bréf þeirra edur Instrúx, var útgéfid 1ta Júlí næst eptir. Vard samt ecki af ferdinni þessi missiri, þar eitthvad bar á milli, sem þurfti brádari vidgjørda, gaf Konúngur þéim þó 100rdli hvørjum í bidar-gjald þar til ferdin yrdi. Í December mán. fékk Bjarni Borks Collegium fyri tilstilli hins nafnfræga Baróns Holbergs, sem þá var nefndrar stiptunar Tilsjónar-madur; tók Bjarni um þad leiti Míslínga-sótt, í hvørri hann lá

rúma

rúma viku; flutti sídan inn á Borks Collegium eptir Ný-ár 1752 [20]).

Í Febrúari mán. ritudu þeir Eggert Vísinda-félaginu, ad annadhvert yrdu þeir ad fá 300rdli hverr, árlega til Íslands farar, edur vera kyrrir, snerust þeir Ranzau og Harboe þúnglega vid þessari krøfu, samt vannst þad á, ad Félagid lofádi þann 6ta Martsí, ad hvørr þeirra skyldi árlega fá 200rdli. auk 400rdla. til útgjørdar fyrsta ár, og frí-flutning um landid, edur peninga til þess; var þetta stadfest af Kóngi þann 24da s. mán. og tóku þeir nú ad búa sig med øllu athygli og framqvæmd þad eptir var vors.

Fór Eggert inn med vestan-skipum frá Kaupmannahøfn, þann 2 Júní, en Bjarni þann 10da med Fálka-skipi til Sydur-lands, varadi þeirra náttúru-skodunar umferd hér í 6 samfeld sumur, en á vetrum sátu þeir um kyrrt, optast í Videy, en sendu vid øll tækifæri Vísinda-félaginu dagbók sína og fundin fágæti øll, sem enn

[20]) Nockru fyrir Jól, sama vetur, bar þad til, sem flesta hrygdi-um þær mundir, ad Drottníng Lovísa reyndist svo af dansi, ad qvidur hennar brast, svo ad Læknis-hendur urdu til ad koma, en sú vidgjørd dró hana til dauda þann 19da Decembr. Hefir Bjarni minnst hennar med støku þessari:

Daud er Lovísa!
Landa gledi
Lífs medan var,
Lídin, harmur!

enn má skoda á Natúral-sál Háskólans í Kaupmannahøfn; má enginn ætlast til ad lesa hér allt hvad þeir félagar adhøfdust um þennann tíma, enda er mestur hluti þess talinn í Ferda-bók þeirra, sem prentud var í Sórey, árid 1772, hvør, þó eckért væri annad, sem þó er næsta margt, gjørt hefir nafn þeirra ódaudlegt, medan nockurr er, sem les náttúru-frædi. Skal þad nóg ad hræra hér ad eins vid høfud-atridum á ferd þeirra, hellst hvad Bjarna vidkémur; hafdi hann lánga útivist um sumarid, og mótbyri í 3 vikur fyri Norvegi, géck hann í land í Sogni, Moss og Túnsbergi, skodadi þar margt markverdt, og var af øllum þar í heldri rød vel metinn, og innbodinn til gésta. Þann 21ta Júlí géck hann í land í Videy, kom Eggért ad vestann 4um døgum sídar, og hófu þeir þad sumar yfirferd sína frá Laugarnesi, þann 8da Augúst, uppá Þíngvøll, þadan Nordlendínga veg til Hvitárvatns, ætludu til Skagafjardar, en villtust á Kili, á veg Eyfirdínga, og nádu til bygda í framanverdann Eyjafjørd, þann 14da s. m., ferduduft sídan Ljósavatns-skard til Myvatns, athugudu Brenusteins-námana þar, svo ofaná Tjørnnes og í Hallbjarnarstada kamb, sídan tilbaka ad Mødruvøllum, og Hjaltadals-heidi til Hóla, brá Bjarni sér þadan ad Høfda til fundar vid módur sína, og var þad í seinasta sinni hér, þann 13da Septembr. ad þau sáust, dvaldi hann þar eina nótt, og héldu þeir svo ferd sinni til Mælifells, þadan til

Reyk-

Reykjavalla á Kili, svo á Þingvøll, og komu til Reykjavíkur þann 20ta s. mán., snerist Eggért þá til vestur-ferdar, en Bjarni þádi vetur-vist í Videy, ad Landfógeta Skúla, og gjørdi fyrir hann ýmsar tilraunir um haustid med Brennusteininn frá Kr'suvik, sem sídan gaf efni til Brennusteinssudu-verksins þar og í Húsavík, fyrir umsjá Skúla. Þenna vetur og enn nærsta, er hann dvaldi hér, hafdi hann, auk ritnínga um ferdir þeirra, og smá náttúruskodaña, nóg adkall af veikum úr ýmsri átt, var þad bædi, ad hann var opt til þeirra sóktur úr nærstu bygdum, enda stód Videy þá, sem sídan í Skúla tíd, opin fyri mørgum sjúklíngi, svo vikum, mánudum, já, missirum skipti, tókst Bjarna svo vel vid flesta, sem von er til af hvørjum þeim, sem alhuga vár til ydnar finnar, hvør sem hún er. Medal annars kenndi hann þenna vetur kristinndóm sinn Júngfrú Rannvegu Skúladóttur Fógeta, sem sídar vard kona hans, og hafa þad eptir honum vinir hans, ad þá fyrst hafi til hennar dregist hugur hans, er hún var fermd í Reykjavík þann 20ta Maí 1753, þó samfarir þeirra drægjust sídan í 10 ár.

Sumarid 1753 kom Eggért ad vestan þ. 13da Júlí, ferduðust þeir þá fyrst til Þingvallar, og sídan alfarnir frá Reykjavík, þann 31ta s. mán. yfir Kjalarnes, fyrir Hvalfjørd ad Leirá, hvar þeir dvøldu um hríd ad skoda sig um og rita utanlands; sídan upp Borgarfjørd til Kalmannstúngu, í hellirinn Surt, upp

upp til Þórisdals í Geitlands-jökli forgêfins ferd, og nidur fjørd vestan Hvítá til Hjardarholts, þadan ad Qvennabrecku og Hjardarholti í Dølum, og fundust þeir þar brædur Gunnar Prestur og Bjarni. Þadan til Vestfjarda, og um allann þann kjálka, sem liggur vestan Isafjardar-djúp, svo til Styckishólms sjóveg, vard Eggert eptir þar vestra, en Bjarni ferdadist sudur á Akranes, og kom til Videyjar, þann 6ta Octóbr. Eggert kom sudur á eptir, og dvøldu þeir þar bádir þann vetur.

Sumarid 1754 byrjudu þeir ferd sína sjóveg frá Videy þann 10da Júní til Akranesſs, þadan ad Hjardarholti, yfir vestri Skardsheidi til Stadar á Ølduhrygg, skodudu Ølkéldurnar á Snæfellsnesi, mældu og gengu hærst uppá Snæfells-jøkul, þann 1ta Júlí, þadan fyrir Enni og Búlandshøfda ad Setbergi, þá til Drápuhlidar, og gengu fjallid þar, svo til baka ad Hítardal, þadan Lángavatnsdal til Reykholtsdals, yfir Hvalfjørd og til Videyjar þann 11ta Júlí, frétti Bjarni þá daginn eptir lát módur sinnar ad nordan, og féck honum þad sorgar, þvi hann elskadi hana mjøg. Þann 11ta Aug. fóru þeir aptur af stad úr Videy til Borgarfjardar, skodudu Baulu-tind, þadan vestur um Dali, til Vestfjardanna nyrdri, edur austan Isafjardar-djúp, í Reykjafjørd, þadann ad Draungum, og adgættu þar rekatymbrid, þá yfir firdi alla þadan til Vatnsfjardar og Øgurs vid Isafjardar-djúp, svo ad

Otr-

Otrardal, ſídan yfir Þingmanna-heidi ad Stad á Reykjaneſi, þá ſudur um Dali til Borgarfjardar, og komu í Videy þann 19da Octóbr., og vóru þar til ſamans þann vetur.

Vorid 1755 mældu þeir Eggert fiøru-bord í Videy, 17 fóta þverhýpt med ſtórſtraumi; brenndu líka þáng til Potteſku, og ſudu Sallt af ſjáfar-vatni þar; líka reiſtu þeir til Kriſu-víkur og um Sudurnes øll um Fardaga-leiti. Þar eptir fór Bjarni uppá Alþing, og til Odda á Rángárvøllum; ſvo vóru þeir med jard-nafarinn í Laugarneſi; en adalferd ſína byr-judu þeir úr Videy þann 17da Augúſti gégn-um Borgarfjørd, Holtavørduheidi til Nord-urlands, yfir Húnavatns-þing og Skagaheidi, fram fjørd til Tinnárſels í Dølum, ſvo út Bløndublíd til Hóla, útí Fljót um dali og firdi til Eyjafjardar, um hann til og frá, og ſvo Ørnadalsheidi til Skagafjardar, þadan Kidaſkard til Svartárdals, yfir Húnavatns-ſýſlu og Holtavørduheidi til Leirár, þadan fyrir innan fjørd til Videyjar, og komu þáng-ad 14da Octóbr., vóru þar enn þann vetur bád-ir ſaman. Þann 19da ſ. mán. ſáſt fyrſt þadan eldurinn í Køtlugjá, ſem ſpúdi þetta hauſt, urdu fannir þar ſudur grúar af vikur-øſku, og má þá ſøgu leſa annarſtadar. Þann 1ta De-cembr. ſ. á. hefir Bjarni gétid þeſs, ſem merki-legs, ad þá flugu hjá 4 Helſingjar, og má þad kalla um venju ſeint. Sama dag var hans vit-jad til manns á Alptaneſi, ſem biti hafdi ſtadid í 4 dægur.

Vetr-

Veturinn 1756 í Martsí mánudi, hófst veiki sú vid Fabríkuna i Reykjavík, sem þá var kølluð Sárasótt, var Bjarni þángad kalladur, og gjørdi uppskátt vidkomendum, ad þetta væri en fransk syki, og ramar skordur mætti vid reisa, ef dnga skyldi [21]), var því lítid gégnt um hríd, allt þar til menn þreifudu á, ad hann hafdi rétt ad mæla, hvar um síðar. Vorid sama prófadi Bjarni og uppgøtvadi lækninga-dygdir Burni rótar, hvar um hann hefir eptir sig látid Ritling einn litinn. Milli messna fórn þeir Bjarni og Eggért til Krísuvíkur med jard-nafarinn, sem þeir hvørns-dags-

[21]) Svo ritar hann Magnúsi Amtmanni Gíslasyni, þann 11ta Martsí: „Því er ecki ad leyna Ydur, „ad eg hefi bædi heyrt frá Reykjavík óordid, sem „áleggsi um þar komin luem veneream, og sjálfur „síed þar af fullar Prover, svo nema þetta fólk „verdi hvort frá ødru skilid, þó svo, ad ecki visist „útá víd og dreif, er ecki óttalaust, heldur stór „líkindi íllann enda hafa muni, og þessi vidurlita „sjúkdómur rótsestist kunni hjer í landi, til óbæt-„andi skada og hneisu; og nema Þjer takid nú „til Ydar gódu ráda og roggsemda, mun allt vid „sama standa, og sic eg þá ecki vel kunni fara. „Þetta vildi eg, sem ærlegur Patriot, Ydur pri-„vatim referera, því eg óska, þessi ignomie kynni í „myrkri skýlast, og í tíma drepast, vildi og feginn „vid bródir Eggert þyrstum heldur adra náttúru-„hluti og sjúkdóma ad notificera Societætinu, „hvar til þó neydast mundum, ef yfirhønd tæki.“

dagslega kølludu Rata, og gjørdu þar ýmsar markverdar uppgøtvanir. Þann 20ta Aug. hófu þeir austurferd sína yfir Þíngvøll til Skálaholts, þadan ad Odda á Rángárvøllum, svo inn Hlíd til Grænafjalls, skodudu hverana á Torfa-jøkli, og urdu apturreka frá Køtlugjá fyrir ó-vedri, þadan Mælifellssand til Skaptártúngu, yfir Sídu til Kálfafells, og litu hvervetna yfir Køtlu-undrin, mældu Lómagnúp 328 fadma lódbeint; þadan yfir Skeidarársand til Øræfa, svo um Breidumørk til Hornafjardar, yfir Almannaskard og Lónsheidi til Búlandsnefs, svo Berufjardarskard ad Eydølum, þadan tilbaka sømu leidir, og adgættu þau mørgu náttúru furduverk á þessum kjálka lands. Fóru svo vestur Mýrdals-sand, þó bágt gengi yfir Jøkul-hrannirnar úr Køtlu, sem nú nýlega eru, svo menn viti, þýdnadar; þadan beinleidis til Eyrarbacka, og komu til Videyjar þann 2ota Octóbr. Fór Eggert þá vestur snøggsinnis, kom aptur og dvaldi med Bjarna í Videy um veturinn. Þann vetur hefir Bjarni adgætt og fengist vid fjølda fólks er veikist og dó úr skyr-bjúgi, eins og ætíd er vandi eptir elds uppkomur, enda var þá nærsta mikid hallæri allstadar um land, hardvidri, ablabrestur og þvíumlíkt.

Seinustu sumarferd sína hófu þeir frá Vid-ey, þann 8da Aug. 1757, alfarnir þadan nordur Þíngvalla-sveit og Eyfirdinga-veg ad Mikla-gardi, fann Bjarni þar Benedikt Prest bródur sinn, dveldu þeir þar í sveit um hrid, og skildust

 svo

ſvo ad, fór Eggért veſtur ſveitir, en Bjarni nordur ad Þeſta-reykjum og Húſavík, um Tiørnnes og Keldnhverſi til Lánganeſs, ſvo nordur um Vopnafjørd og upp um Hérad til Eſkifjardar; ſkodadi hann á þeſſari leid einkanlegaſt middegis-hæd ſólar og nordur-hnegíng frá jafndægra-bríng (altitudo & declinatio ſolis), líka halla og misviſan Segul-nálar (inclinatio & declinatio acus magneticæ), um hvad hann hellſt var bedinn af enum lærda Kratzenſtein. Hafdiſt Bjarni vid í Reidarfirdi til 27da Septembr. þá hann leyſti hédan frá landi, alfarinn í þad ſinn, med Reidarfjardar-ſkipi. Géck hann í ferd þeirri enn á ný í land vid Eggió í Norvegi, tafdi þar nockra daga, og kom til Kaupmannahafnar þann 20ta Octóbr. en Eggért var þar þá fyrir.

Medan þeir Bjarni vóru á náttúru-ferdalagi ſínu á Islandi, ſendu þeir Júſtits-rádi Búchvald allt hvad þeir fundu og ſøfnudu hér, en er þeir komu fram, fengu þeir þad ſtarf ſtrax um hauſtid, ad flytja þad allt uppá Natúral-ſalinn, og koma því þar í rétta ordu, troda upp fuglahami, ſegja fyrir, og umgángaſt teikníngar og málverk, er fylgja ſkyldu Ferda-bók, þeirra ſídan. Hlutu þeir mikla fremd og æru af ferdum ſínum, ſvo ad á Félags-móti þann 16da Jan. 1758, framſagdi Geheimerád Holſt þeim opinberlega: a) Nád Kongúngs, og þad med, ad kaup þeirra ſkyldi vera hid ſama fyrſt um ſinn, eins og á ferdinni, 200rdlr. árlega. b.) Skuld-

ir

ir þeirra í Íslandi skyldu betalast, hvad þó brást sídar meir. c.) Skyldu þeir brádlega fá embætti, er þeim hæfdi, var þad hellst Greifi Hjálmstjarna, sem studdi ad þessu vid Kóníng, eins og hann ætíd var Bjarna innannhandar eptir og ádur.

Etats-rád Búchvald var Bjarna allt af lidveittur, sem fyrr hefir verid drepid á, lédi honum bækur, lánadi peninga, útvegadi lík til uppskurdar, og fleira slíkt, en lengi var þad þó midur enn Bjarni hafdi verdleik til, allt til þess um veturinn 1758 og 59: bar þá svo til, ad vinur Búchvalds, Etats-rád Schousboe lagdist sárasjúkur úti Holbeck, qvaddi Búchvald Bjarna til ferdar út þángad sinna vegna, ad hjálpa vin sínum, var Bjarni þar 3ja vikna tíma, og græddi Schousboe ad heilu, í þeim kríngumstædum, sem ad líkindum engum hefdi tekist nema honum einum [22]). Þá þegar Bjarni kom aptur, og sagdi Búchvald frá lækníngar-máta sínum, veikindum og bata mannsins, og s. fr., þá grét sá gódi madur af fögnudi, og var Bjarna upp frá því eins og fadir, útvegadi honum Praxin, lét hann bædi fara med sér til sjúkra, og líka sendi hann í sinn stad til margra tíginna, var og medan hann lifdi æ sídan munnur Bjarna í Collegio Medico, og hjá Patrono Universitatis, hvad ekki gjördi lítid til þess, er sídar mun gétid verda, um



[22]) Þetta er ordrett eptir Dr. Hannesi Biskupi, sem þá var Bjarna samtída; og skrum-laus madur.

um embætti hans. Etats-ráð Schousboe elskadi Bjarna og sídan eins og lífgjafa sinn, og útbásúnadi hvørvetna hrós hans. Um þess-ar mundir bundu þeir vináttu sína Bjarni og Hannes Biskup Finnsson, sem þá dvaldi vid Háskólann, kénndi Bjarni honum Grasa-frædi og þvíumlíkt, og unnust þeir til dauda-dags [23]).

Þess

[23]) Svo ritar Hannes Biskup í sendibrefi af 27da Októbr. 1795: „Þjer verdid ad vorkjenna mjer, „þó eg verdi tølugur, þegar Bjarna heitinn Páls-„son ber á góma, honum átti eg tvisvar lengíng „lífs míns ad þacka, ad því, er í manna-valdi stód, „og eg gaguþeckti hann ad æru-manni, og vin „mínum. Eitt sinn þá eg var gjestur í Nesi, í „tíd nú lifanda Landph., sá eg blada-rifrildi af „minnis-bók hans, spurdi Landph. hvørninn á þeim „stædi? sagdi hann: ad þar eckert eptirrettanlegt „medicum í þeim stædi, hefdi hann brúkad þau „fyrir Makúlatúr; eg, sem ber virdíngu fyri hvør-„jum bókstaf frá þess manns hendi, beiddi hann „um þær litlu leyfar, sem eptir vóru, feck þær, „og læt hjer med fylgja, ysirlátandi til Ydar, „hvort Þjer viljid þær geyma, edur fortæra þeim. „Eg hefi líka geymdann fjølda brefa hans til fødur „míns sál. og mín, sem er Ydur til þjenustu, ef „halda vildud þeim saman; þau eru øll talgndi „bevísan uppá mannsins stáka frómlyndi, mannúd-„legleik, stødugu trygd, og ypparlegann móralísk-„ann Karakter." Ad þetta hafi ecki sídur verid á

Bjarna

Þeſs var áður gétið, að veiki ſú, er lærðir menn kalla Fransós, tók að bryдда á ſér í

D 3 Js-

Bjarna álſu, vottá bref hans til Biſkups meдal annara þetta, af 14da Sept. 1776, þá Hannes var Stipt-próſaſtur í Kaupmannahöfn: „Loſaður „ſé Guð, ſem Yður aptur og aptur hefir bæði „konſerverað, og frá einni lucku-troppu til annar„ar prómóverað! og víſt eruð Þjer þannkum mín„um því kjærri, ſem guðlega ſinnað frómlyndi Yð„ar ecki metnaſt ɩc., heldur internè fyrſt og ſíðaſt „geſið Yður Guði; og því heldur tek eg til þeſs, „ſem etiam mjer, qva medico, varð, við kriſt„inn ſøður Dr. Finn, þá hann, iteratis vici„bus, á qvøldin, ſiſkaði í mjer: hvørt Hannes „ſinn mundi lifa, eður lifna? að ſvara: að gefa „mundi Guð honum Hannes ſinn! ſem að ſonnu „vel rættiſt, og ræt iſt betur, þar Guð þeckjanlega „er að leiða Yður frá einni perfectio og felicitas „til annarar. Gángi það ſem lengſt; hans hei„laga nafni til æru, ſem fleſtra uppbyggingar, og „Yður til ánægju og lánggæðrar æruminningar!"
Líka annað af 29da Maí 1777, til ſøður hans: „Svo hrum og veſæl olmuſſa af manni eg er, „gjet eg ſamt ecki á mjer ſetið — að minnaſt Herra „Hanneſar vors: Guð haſi honum loſaður geſið „allann hans uppgáng til ſæmdar og ſóma, frá „einni velſorþjentri æru-troppu til annarar! hann „ſami góði Guð haſi Yður líka loſaður geſið! að „ſá nú að ſjá þann ſon Yðar, ſem Þjer ſvo hjart„anlega

Islandi árid 1756, muna menn enn þá, hvad geysilega næm hún var hér, er aldrei hafdi fyrr á henni borid svo menn viti; en Bjarni hafdi þá annad starf á hendi, sem hamladi honum frá, ad geta útrudt þeirri andstygdar sýki til fulls, hvad ecki skédi fyrr enn eptir 1763, þá er hann var ordinn Landphysicus, og jafnvel eymdi eptir af henni enn þá 1774; þetta þreyngdi, ad sagt er, Magnúsi Amtmanni Gíslasyni til fyrstum manni, eptir rádi Bjarna og undirlagi, ad færa í ord á hærri stødum, ad hér í landi væri stiptad Læknis-embætti, en hvenær Amtmadur hefir gjørt þad, vitum vær ecki gløggt; samt var þad fyrst í Februari 1758, ad Búchvald lét Bjarna færa í rít meiníngu sína, hvørninn því yrdi vidkomid: ad stipta Landphysicat i Islandi? hvør-

„ánlega elskudud, (þad vissa eg mest einusinni), „kominn til slikrar dignitatis, sem Þjer hellst mund-„ud hafa óskad honum, og sem stofnar bádum Ydur „til ánægju, æru og æfinlegrar sóma-minníngar! „lettirs Ydur medan lifid! leidar-kynníngar hon-„um undir Ydar tilsjá! og umfram allt Públicó „til uppbyggíngar! því umfram manns þess ofur „þægu og applicabilia naturalia, manngædsku, „humanitet, og háa lærdóm, munu færri hjer „hast hafa slíka Converſation utanlands, med fa-„vore og ánægju allra ærlega þenkjandi vidkomenda! „verbo: verdi Ydur og øllum ad blessun, svo Guds „verdi æran! og vel giørdi hann, ad virda mig „góds brefs, þann 15da April!“

hvørjar hans skyldur, og laun skyldu vera? og s. fr., leysti Bjarni þetta vel af hendi, og afhendti Búchvald og Mølmann, bréf þad, þann 22ann Febr., þó lá þetta allt í salti, þángad til 1760; en Bjarni héllt áfram bók-ydnum sínum og ødru þar ad lútandi, á medan; er þess gétid, ad hann um þad leiti ritad hafi fyri Mølmann skrifkorn de Magia Islandorum, og ýmsa smá-ritlínga.

Þann 24da Septembr. 1759 tók hann Attestats med effsta æru-titli í Læknis-listinni, átti líka kost á ad taka Doctor-gradinn í sømu ment, bædi þá og sídar, enn hvørgi finnst, ad hann hafi því sinnt.

Arid eptir um veturinn fór Vísinda-félagid fyrir alvøru ad hugsa Bjarna fyrir embætti: var þad bædi ad Ranzau umgéckst þad sjálfur vid Kóng, líka fékk hann Greifa Ahlefeld ad leggjast á tog med sér fyrir Bjarna, svo ad Kóngur Friderikur Fimti, band med opnu bréfi þann 18da Martsí 1760: ad Bjarni skyldi vera fyrsti Landphysicus á Íslandi, sitja á sjálf-valinni, leigu-lausri jørdu, fá 300rdl. í laun, 200rdl. til medala innkaups, og 150rdl. til ad kaupa fyrir læknis-verkfæri og þesshattar, fékk Bjarni bréf þar um, þann 21ta s. m. frá Rentu-kammeri, og leysti svo inn veitingar-bréf sitt þann 10da April fyrir 51rdl. 56 ß. en Instrúx hans er útgéfid þann 19da Maí. Fór hann þá strax ad búa sig til burtu-ferdar inn hingad, kaupa Apótheks-sakir, lækninga-medøl, chirúrgisk

 verk-

verk-fœri og hvad annad er medþurfti, sem eckí var I tíd, þar hann ásamt átti ad vera Apóthekari og Landph.; beiddist hann þó í fyrstu, ad annar væri hér strax Apóthekari, en fèck þar um enga áheyrslu; og þá er hann hafdi rádstafad því öllu med sunnan-skipnm, tók hann sèr fari med Styckish lms-skipi frá Kaupmannahøfn, eptir 9 vetra dvøl vid Háskólann, ank þeirra 6, sem hann var ad náttúru-skodan úti hér [24].

Bjarni Landphysicus qvaddi Kaupmannahøfn og fór til skips þann 24da Maí, en gèck á land í Styckishólmi þann 9da Júlí; kom hann á ferd þeirri vid í Sviney fyri Jadri, og hyggja menn med sanni, ad ecki hafi lærdari Islendíngur komid frá Háskólanum enn hann var. Naut hann þar tídar sinnar med mestu ástundun og ágæti, lèt eckért þad ósèd, hvar sem hann kom, sem nockurr mætti þykja frôdleikur í og gagn, hvaraf hellst má nefna: Leirkéra- og Glersmídis-Fabríkurnar í Sjálandi og Norvegi; Púdur- og Pappírs-myllurnar; Pottmakara og Tigulsteins-Brennuverkid í Helsíngja-eyri; Járnbergverkid í Moss; Sag-myllurnar þar; Salt-

[24]) Eggert fór líka til Islands sama ár, þann 13da Maí, hefir Bjarni Landph. ritad þad í Almanak sitt svofeldum ordum, sem bera vitni um hreina vináttu þeirra, sem vanlegt var: „Fór bródir minn „Eggert um bord á Patreksfjardar-skipi, sóma-„madur hinn mesti, minn elskulegur samþjón í „14 ár! valeat Ocellus meus!"

Saltverkid í Túnsbergi; Kalkbrennu-verkin í Sjálandi; Yfirfalls-myllunu í Holbeck, samt öll meiriháttar Natúral-söfn, og Bók-sali í Kaupmannahöfn. Vardi hann líka ærna peningum til ad kaupa nytsamar bækur og valdar, og átti ágætt bóka-safn þá er hann deydi, þótt þad sundradist, engum til nota!

Strax sem Bjarni Landph. kom til Íslands, sem ádur er sagt, reid hann til Lögþíngis, og lét birta þar kallsbréf sitt og Instrúx; ferdadist sídan til Videyjar, og sat þar, þann 23ja Júlí, brúdkaup Jóns Sýslumanns Snorrasonar og Jómfrú Gudrúnar eldri Skúladóttur; útvaldi um sama leiti Nes vid Seltjörn fyrir æfinlegt Landphysici setur, en setti sig fyrst um sinn nidur á Bessastödum, hóf þar Apóthek, og tók, þann 5tà Nóvembr., sinn fyrsta Informandum, Magnús heitinn Gudmundsson, sem sídar vard Chirúrgus fyri nordan. Átti Bjarni Landph. heldur ördugt uppdráttar í fyrstu, med því landsfólkid var óvant þesshattar embættum, enda vóru fáir af hinum hérlendis, sem heldur styrktu hann enn veiktu, braut hann þó ísinn med jöfnu þolgædi og stödugl ynd i, og lét engar hindranir fæla sig frá ad gégna skyldu sinni.

Sumarid 1761 hófst múrhúss-bygging í Nesi [25]), og hafdi Bjarni Landph. þar efstu

 um-

[25]) Lókid hefir verid smídi þeirri 1763; þá ritar Eggert ad vestan til Bjarna Landph. í Desembr. mán-

umsjón yfir, en úttekin og afhendt var honum jørdin í Fardøgum þad sama ár, þó fór hann ecki þángad alfari fyrr enn sumarid 1763, ad lokid var múrhús-gjørd, heldur hafdi Apóthekid á Bessastødum, og reit þadan allt er vidkom embætti hans, en var einúngis ad bús umsjá í Nesi þess á milli.

Fyri hans tilhlutun kom og um þad leiti inn híngad densk Yfirsetu-kona, sem enn þá lifir, ad nafni Margrét Katrín, æru- og frómleiks kona sú mesta, var hún examinerud af Búchvald, árid 1761, send híngad samsumars med 60rdla launum, og gjerdi sitt fyrsta Yfirsetukonu-verk hér í October sama ár. Bjarni Landph. fór og strax ad koma því til leidar, þó seigt gengi, ad uppfræddar og examíneradar Yfirsetu-konur væru í hvørri sýslu, hvar um hann lengi þæfdi vid Dr. Finn Biskup, og hafa þær sídan 1766, þann 20ta Júni, fengid árlega 100rdli. af Kóngi, sem Landphysicus útbýtir þeim; lét Bjarni Landph þær sídan examinera af Chirúrgis [26]), en sjálfur yfirheyrdi hann alls í sinni tíd 15 Ljóss-mædur, svo menn viti til.

Lika hóf hann strax ad fá því í verk komid, ad almennilegt Hospital stiptadist hér, í stad þeirra

mánudi: „Gud gjefi Pjer og Publico til lang-„gædrar lucku, og Pínum øllum, med þad nýbygda „Læknar-hús! standi þad, sem Steina-brú!"

[26]) Samanber Auglýsíng af 24da Júlí 1770, í Løg-þíngis-bók þess árs.

þeirra ónýtu líkþrárra Spítala, skrifaðist mjøg á við Finn Biskup um það efni, og marga aðra, líka til Land-commissiónarinnar 1770; þó þessari sök, øllum land-vinnum til hrellíngar, sé til þessa allshendis niðurdrepið.

Bjarni Landph. baudst strax til að taka í lærdómu nockrar líklegar, viljugar persónur, sem út væru skrifaðar frá ødrumhverjum skólanna, vildu Biskupar koma því á, að hann tæki til kénnslu svo mørg Presta-efni, sem þar til vildu géfa sig, skyldu þeir dvelja hjá honum 1 eða 2 ár, og læra til hlítar þá ýfrið ørdugu kunnst á svo stuttum tíma; en þetta affagði Bjarni Landph., sem vonlegt var, hvørki mundu þeir bera mikið frá borði, heldur verða frjóssamt efni í sí-æxlandi fúskara, ecki heldur væri hann maður til að hýsa og fæða svo marga, sér gagnlausa, en allrastíst mætti undir høfuð leggjast að fá á-komið fjórum Fjórðúngs-læknum, eptir boði Kóngs í Instrúxi hans. Héldt hann þá í fyrstu 4 Stúdenta í senn til mentunar, bæði af því Apóthekið lá á honum með, líka til að géta, sem fyrst, sett áðurnefnda Fjórðúnga-lækna. Er þessara helst gétið, að numið hafi að honum lækn-is-list:

1.) Magnús Guðmundsson, kom í lærdómu ár 1760, var examineraður á Alþingi 1766, varð, fyrstur allra hér, Chirúrgus í Norðlendinga-fjórðúngi, og veik þángað 1767, en dó líkþrárr. 1765.

2.) Olafur Olafsson Kammersekretéri, kom 1762, var 1 ár í kénnslu, og treystist ecki lengur.

3.) Simon nockurr, kom og um þessar mundir til Lœkninga-náms, um hann ritar Bjarni Landph. einhvorsstadar þannig: "Simon vorn "þecki Þér, sem eg, hann er í høndunum "ecki ólagkœnn, og gétur því átt vid útvort- "is, en kémst aldrei til sérlegrar perfection "í þessu Studio." Enda fécк hann farar- leyfi eptir eins missiris dvøl, og vard Prestur til Selvogs þinga.

4.) Jón Pétursson, var líka um tíma hjá Bjarna Landph., hér um 1763, um hann segir Landph.: "Djákni Jón er aptus, na- "tus huic studio, hefir bædi skarpleik og "vilja, en — Gud betri hans bágu hendur." Sagt er þeir hafi þó ecki átt sinni saman. Sigldi Jón sídan, kom aptur, og fécк em- bættid eptir Magnús Gudmundsson í Nordurlandi, sem flestum er kunnugt.

5.) Jón Stephánsson, kom til kénnslu 1762, um hann segir Landph.: "hann er frómlynd- "ur og setníngssamur, og mun til nockurs "góds artast, þó hann sé seinn, máské þad "elltist og eldist nockud úr honum." Dvaldi hann í 5 edur 6 ár, en fór burt óexamine- radur, þar Klerkdómur var meira hans ód- al enn Lœknis-líst.

6.) Hallgrímur Backmann, kom 1763, sigldi ásamt Bjarna Landph. 1765, þjónadi hon- um

um ytra og kom med honum aptur, var hann examíneradur, og veik burt Chirúrgus á Vesturlandi árid 1768.

7.) Brynjúlfur Pétursson, kom í lærslu 1765, vard examíneradur, og Chirúrgus í Austfirdinga-Fjórdúngi 1770.

8.) Magnús Ormsson, kom 1766, sæddur á sama hátt og Apóthekid burtu frá Bjarna 1772, og vard þar virkilegur Apóthekari árid 1799.

9.) Jón Einarsson, kom í kénnslu 1768, var examíneradur 1776, en dvaldi hjá Landph. til þess hann létst, vard svo eins árs tíma Fullmektugur vid Landphysicatid, en sídan Chirúrgus á Vestfjørdum, jafnsidis vid H. Backmann.

10.) Gudmundur Gudmundsson, kom 1775, dvaldi á 3ja ár, en vildi heldur Prestur verda, sér til litils lucku-auka.

11.) Salómon Bjørnsson, kom 1777, fór burtu þá er Landph. andadist; vard Prestur til Berufjardar-þínga 1785 [27]).

Fyrsta

[27]) Auk þeirra hjer tøldu, er getid um ad þessir hafi hjá Bjarna Landph. verid informandi: Þórdur Arnórsson, á hans fyrstu árum, lifdi ecki lengi, og tregadi Bjarni Landph. hann mjøg; því þegar hann sá hann lagdann lík á Bessastødum, klappadi hann ofaná hann og sagdi: nú liggur þú þar, þægi Þórdur! Jón Stephánsson, sídar Capel-

Fyrsta ferd Bjarna, sem Landphysici hér í landi, var um haustid sama, er hann kom inn, austur ad Odda og þar um kríng; skodadi hann þá um leid Hurrabødin í Klofa og Þjórsárholti, af hverjum hann sídan mjøg héllt, og hefir gjørt Rit-korn eitt um brúkun og nytsemi þeirra. Þar eptir ferdadist hann til Borgarfjardar, og í Decembr. mánudi austur til Árness-sýslu, í hvørri ferd hann visitéradi Kaldadarness Hospítal. Sumarid eptir reisti hann sjóveg vestur ad Saudlauksdal til Eggerts vinar síns, ad gegnumgánga med honum Íslands Náttúru-histor-íu, því þá var Eggert ad búa Ferdabók þeirra undir prentun. Fór Bjarni Landph. ad heiman þann 24da Maí, ferdadist yfir land til baka, og nádi sudur þann 7da Júlí; kom Eggert líka sudur til hans ad Bessastødum sama haust, um veturnætur. Þann 16da Septembr. sat Bjarni Landph. brullaup Olafs, nú Stiptamtmanns yfir Íslandi, Stephánssonar og Frúr Sigrídar Magnúsdóttur Amtmanns ad Leirá. Árid 1762 ferdadist Bjarni Landph. þann 5ta Aug. sjóveg til Vestmanneyja, ad lækna Umbods- og Kaup-mann þar, Hans Klog; fór hann yfir meginland til baka, og gékk í ferd þeirri annad sinn á Hekla-fjall, var þad 4um árum ádur hún spjó seinast.

Árid

Capellán til Kolfreyjustadar, nú Prestur til Vallaness í Múla-sýslu, brantst burt eptir 39ja vikna vern.

Arid 1763, þann 1ta Júlí, þá er Bjarni Landph. hafdi 1 ár bú haft ad Nesi, inngéck hann ektaskap med Jómfrú Rannveigu Skúladóttur, skédi þad med þeim atburdum, ad hún var honum heitin haustinu ádur, en fadir hennar, Skúli Fógeti, vildi, ad brúdkaup væri dregid til komanda sumars, var þad Bjarna naudugt, og lagdi hann í ábyrgd Skúla hvad af því hlytist, enda bar svo vid, ad Rannveig lá á sæng ad fyrsta barni þeirra Steinunni, þá er brúdkaup skyldi vera; var hún í rúmi sínu vígd honum kona af Gudlaugi Prófasti Þorgeirssyni ad Gørdum, og géck hún í bú hans ad Nesi sama sumar. Auk annars stórmennis, sem ad þessu bodi var, hafdi Bjarni Landph. ávarpad Eggert Olafsson vin sinn ad vera nálægann, stódst svo á fyrir honum, ad hann ecki gat komid, en sendi félaga sínum þá ofursnotru og mergfullu brullaups-rollu edur qvædi, er hann nefndi Sigurdrífu-mál en nýju, og finnst í qvædabók hans. Brádt fannst þad, ad þau hjón vóru framqvæmdasøm og útsjed í bústarfi, hafdi Bjarni Landph. ærinn skipa útveg til fiski-abla, og eins farnadist honum landbúnadur ágæta vel; enda hafdi Rannveig kona hans vanist nockru medur fødur sínum, jafnvel um nockur ár gegnt þeim størfum innannstofu í Videy, sem nóg kóstu sídan handa tveimur eda þremur. Rannveig kunni þaraduki mæta vel fyrir sér, fékk fadir hennar, hana um nockra vetur til fósturs og læríngar ad Leirá, til Frúr heitinnar Þórunnar, og a:un

mun þad hafa henni drjúgt dregid til ad ſitja ſvo prýdilega í þeim ſeſſi hún ſídan var í ſett. Má vera fleſtum virdiſt, ſem ecki gæti þeim annad enn búnaſt vel, med þvílíkum inntektum og ardi, ſem vel paſſad Apóthek og Landphyſikat af ſér géfur, en þegar gætt er ad þeim dæmalauſa átrodníngi af ſendimønnum, ſjúklingum, ferdakoſtnadi og þeſsháttar, og undir eins hinu: ad fjøldi var þá í fyrſtu, ſem litlu og engu borgadi læknis-medøl og vidgjørdir; ad mørgum ſveitar-lim var ſlengt þángad karlægum án nockurs vidurlags; ad Apóthekid var ſlædt frá Bjarna nær því óvitandi, og ádur enn hann gát unnid upp á því ſinn, fáum kunnuga, mikla koſtnad; ad þau bædi hjón, þó meſt hann, urdu ad ſæta þúngum heilſu-breſti ſtrax á fyrſtu árum búſkapar þeirra, auk annara þúngra búſifja, ſem hér hlýdir litid á ad minnaſt; þegar litid er til alls þeſſa, og undir eins rauſnar og manngædſku Bjarna Landph., þá mun líkaſt álitid, ad koſtnadur og ábati hefdi ſtadiſt á, nema framſýni þeirra hefdi komid til.

Børn þeirra Bjarna Landph. og Rannveigar vóru þeſſi:

1.) Steinun, ſem fyrr er nefnd, er hún fædd í Videy þann 27da Júní 1763, heitin í høfud módur-ømmu ſinni, var þar lengſtum ad fóſtri medur afa ſínum Fógeta Skúla, þar til hún var 19 ára, er hún giptiſt Vigfúſa Þórarinsſyni, ſem þá var Valdsmadur Kóngs í Kjalarneſs-, en nú í Rángárþingi,

þíngi, og búa ad Hlídarenda; hafa þau átt 12 barna saman, hvørra 6 enn þá lifa.

2.) Skúli, sá fæddist í Nesi þann 8da Janúarí 1765, heitinn í høfud módur-afa sínum; ólst upp í fødur-húsum, þángad til hann sigldi, ár hid sama og fadir hans létst; var hann settur til læríngar á Müllers Apóthek í Kaupmannahøfn, átti þar, sem opt ber vid, heldur uppámóti, gaf sig því til Styrimanns-kunstar, var einn vetur hjá Konstrúktións-Meistara B. Thorlacius, módur-bródur sínum, og sigldi þadan til China, sem Styrimanns-dreingur, og liggur þar vrendur. Er sagt hann væri náttúru-besta úngmenni, en átti þó litlu láni ad fagna, eptir þad hann skildist vid foreldra sína.

3.) Hallur, fæddur 5ta Febr. 1766 í Nesi, heitinn eptir Halli Bjarnasyni, hvørs getid er ad framan. Ólst hann upp med Philippin fødur-systur sinni og Hjálmari, til þess hann var 4ra vetra, sídan med Benedikt Presti frænda sínum, þángad til nockru ádur hann sigldi hédan frá landi, árid 1780, og hefir ecki spyrst til þess skips sídan. Hallur var nockurr fyri sér, en ad allra søgn, er þeckti hann, hid gáfu-mesta úngmenni.

4.) Gudmundur, fæddur í Nesi þann 26ta Júlí 1767, heitinn eptir hálf-bródur fødur síns og launsyni Páls Prests, er hann átti í skóla; lifdi hann tæpann mánadar-tíma, og andadist þann 19da Augústi, var allt af veik-



ur,

ur, en sást þó aldrei gráta, sem annað barn; var hann, af fødur sínum, ørendur, skorinn upp, og fanst þá engin spor í honum til gall-blødru, er þess gétið, að fadir hans hafi þá sagt: hvørnig átti sképnan að lifa?

5.) og 6.) Eggért og Sigrídur tviburar, fødd í Nesi nóttina nafnkunnu milli 17da og 18da Janúari 1771, hét Sigrídur eptir fødur-ømmu sinni, var gjørfilegasta barn til állra gáfna, lifdi nær því 6 ár, og andadist í Skarlats-sóttinni, þann 22ann Nóvembr. 1776, féck það foreldrum hennar mikills harms. Eggért var heitinn eptir Eggérti Løg-manni Olafssyni, reisu-bródur og vini Bjarna-Landph.; dvaldi hann med foreldr-um sínum til þess eptir lát fødur hans, fór þá í fóstur til Magnúsar Løgmanns Olafs-sonar, er seinást sat að Medalfelli, lét hann setja hann í látinn-skóla í Reykjavík; sídan var hann 3 sumur á ferd med Sveini Páls-syni, sem þá fór hér um land að náttúru-skodun, en nú er Chirúrgus fyrir austan; eptir það var hann nockur ár á Bessastød-um hjá Amtmanni Vibe, og vígdist Prest-ur til Snæfuglstada-þinga í Grímsnesi sumarið 1799, giptist sama haust Þorgérdi Ejúlfsdóttur, bónda að Svidholti, og búa þau nú á Klausturhólum.

7.) Þórun, sú er fødd að Nesi þann 16da Martsi 1776, heitin eptir módur-systur sinni, sem dó 40 vikna; ólst hún upp í foreldra

hús-

húsum medan fadir hennar lifdi, sídan med módur sinni, og í Videy seinast nockur ár, þángad til hún um sumarid 1793 veik til systur sinnar og mágs ad Hlídarenda, og giptist þar, um haustid 1795, ádurnefndum Sveini Pálssyni, ega þau nú 3 børn á lífi, og búa á Kotmúla í Fljótshlíd.

Þá er þau Bjarni Landph. og Rannveig høfdu saman verid rúmt ár, fór hann ad finna til veikinda, bar fyrst á þeim á ferd hans, til ad vísítéra Mødrufells Hospítal, nordur um land, til Skaga- og Eyja-fjarda, sem hófst þann 2ann Sept. 1764, vard hann þá, fyrst á hálsinum nordan Kalmannstúngu, og sídan vid Búdar-á sunnan Stóra-sand, nær því yfirfallinn af Taki undan hægra herdarbladi gégnum brjóstid, med sárustu Sinardráttar tilfinníngu í handlegg og hendi sama-meginn, kómst med vanmætti miklum nordur til Mødruvalla í Hørgárdal, þadan ad Múnkaþverá, hvar hann lá rúmfastur 10 daga; qvaldi sig þó til ad skrifa þadan sín utanlands bréf med Akureyrar-skipi, samt vísitéra Hospitalid, heyra yfirsetu-konur, og svo fr. fór sídan á leid sudur yfir Øxnadals-heidi ad Mælifelli, lá nærstum annanhvørn dag, lagdi þó á fjøll þann 8da Octóbr., og komst heim med áheitum þann 12ta; sat brúdkaup Jóns Fógeta Skúlasonar einka-vinar síns, og qvennvalsins Ragneidar Þórarinsdóttur ad Videy, þann 5ta Nóv. sama haust. Héldst vid ádurnefnt veikinda tilfelli, og fylgdu því vaxandi sárinda

tilfinníng í hendinni, og kuldi svo mikill og undarlegur, ad hann varla gat skrifad nafn sitt qvalarlaust, svo eckért var synna, enn hann mætti frá sér leggja embætti sitt, en til þess ad ecki mætti bregda honum um hyrduleysi í því ad leita sér bóta, fyrst eckért vildi duga af því hér var fáanlegt, tók hann fyrir sig ad fara af landi burt, þá hann ádur hafdi skipun giørt á øllu því, er honum þókti umvarda, fengid Apóthekid og embætti sitt í hønd Magnúsi þénara sínum Gudmúndssyni, samt falid konu og børn til umsjár þeim hann ætladi best; hófst ferd sú frá Hafnarfirdi þann 20ta Sept. 1765 med Baggesen Skipara, mættu þeir fyrst geysi stormum af sudvestri allt til ens 25ta, hétu þá skipverjar á fátæka, og hægdi vonum brádara, svo allt géck bærilega, uns þeir tóku høfn, þann 12ta Octóbr., í Reykjavík vid Sandey í Norvegi; bjó þar þar þá Gunnar nockurr Gunnarsson Skipari, greida-madur mikill; ætladi Bjarni Landph. ad ferdast þadan til Járnberg-verks nockurs þar upp frá á meginlandi, en þad slóst af vegna Landfarsóttar, sem heyrdist ad gengi þar.

Géta verdur þess hér, ad Bjarni Landph., sem eckért nýstárlegt lét óskodad hjá fara, medan kraptar og líf endtust, tók eptir fá-einu, sem heyrir til náttúru-frædi, á ferd þessari, var þad fyrst Nordur-ljós, sem um nóttina, eptir 27da Septembr., hér um 30 mílur sudaustur frá Íslandi, lékn svo lágt í lopti, med allsslags litum, ad huldi stundum í þeim rár og toppa mastranna,

anna; fylgdu þeim hvørki, nidur eda ſuda, ſem nockrir þykjaſt heyrt hafa, né ſerleg vedra-bryndi, nema ſjólægin þokur um hríd. Þad annad var, ad fleſt-allir ſjófuglar vid Færeyjar, Hjaltland og Norvegr eru døckleitari á baki, enn vid Ísland, og gétur hann til þad komi af bjergunum, ſem fuglinn verpur í. Þad þridja var Regnbogi móti mána, nóttina eptir 29da Septembr., auſtanvert vid Færeyjar, en 2 daga á eptir var offa-ſtormur á ſudveſtan, og ſjóargángur fram úr. Þad fjórda vóru 2 Land-titlíngar, med kamb í enni, líkt og á Hænu, ſvartir á vængjum, enn hvítir utan med um kríng, minni enn canaríſkir titlíngar, þeſſir ſettu ſig á ſkip þeirra, nálægt Norvegi, en náduſt ecki, og er líkaſt þeir ſéu enn ecki alkénndir; 2 adra ſá hann ſídar, minni enn Steindepla, ſvartleita, med hvítum, ſvørtum og innſt raudum bletti á vængjum, og raudleitum kamb í enni, ſem hinir; þeſſir vóru og mjøg ſtyggvir. En því er þeſſa gétid hér, ad þad mun hvergi finnaſt annars, nema í litilli dagbók, ſem Bjarni Landph. hèllt yfir þá ferd.

Þann 15da Októbr. léttu þeir frá Reykjavík, og komuſt tídindalauſt til Kaupmannahafnar þann 19da; fann Bjarni Landph. þar fyrſtann allra vin ſinn Kappel Apóthekara, því Búchvald var þá látinn; toku adrir kunníngjar hans vid honum allshugar fegnir, einkum var hann mjøg þrátt ad heimbodi med Hjálmſtjørnu, Fris Rotbøll Próféſſor, Lúxdorph, Etats-rádi Heltzen, ſem var einhvørr hans beſti vinur,

Dr. Heuermann, Sigurdi Gullsmid Þorsteinsſyni, Egg.rti ſoſtbródur ſinum, ſem þá var og erlendis, og fleirum; vóru þeir medur honum til þjónuſtu um veturinn, Hallgrimur Backmann og Þorgrimur Múrari; En hvad Bjarni Landph. hafdiſt þar ſidan ad med Lækningar ⸢o⸣g annad, er oſs ókunnugt, nema hvad hann, afuframt heilſu vidleitni ſjálfs ſíns, ſem meſt var innifalin í Electriſeran, hefir í ferd þeſſari ſ[illegible]aid hinſu í lag. hrundid, ſem honum þurfa þókti vid Apóthekid, og embætti ſitt hér, einkum féck hann þá útverkada Yfirſetu-qvenna peningana, og útgjørt um Chirúrgatanna ſtiptun í Islandi. Fór hann aptur á leid inn hingad ſidaſta ſinni æfi ſinnar frá Kaupmannahøfn, ſumarid næſta eptir, med Veſtmanneyja ſkipi, litlu ſkárri í hendinni, en qvartadi þó allt af um í øllum líkamanum, og ſérilagi hægra handleggnum; lidu ſvo tímar fram til þeſs um ſumarid 1767, er Rannveig kona hans lá á ſæng ad Gudmundi, þá hann um máltíd, fáein augnablik, féck í munn og andlit adkénníng af drætti þeim, er Læknir kalla Triſmus, ſkédi þetta optlega þar á eptir, vidlíka lengi í einu.

Þetta ſama ſumar, þá er halladi ſlætti, ridu þau hjón í brúdkaup Eggérts Løgmanns Olafsſonar ad Reykholti, og funduſt þeir þá ſeinaſta ſinni þeſſa heims Bjarni og hann, því vorid eptir fórſt Eggért med konu ſinni og 6 ødrum á Breidafirdi, ſem enn er í ferſku minni, og leſa má í æfi hans. Er fyrir ſatt haft, ad

eng-

enginn harmadi Eggert sárar enn Bjarni og varla eins, einkum þá hann var sem fámennast- ur, bar mest á því, þá er hann, fyrsta sinni eptir heyrt lát hans, kom úr lækníngaferd ad austan sudur á fjall, og sá fyrst á sjó, brá hon- um þá svo, ad hann fleigdi sér flötum á jörd, grét og harmadi sér hástöfum mjög lengi yfir hvarsi vinar síns, og lét þar med í ljósi hvad vinfast- ur hann var, og hverr skadi honum þókti í frá- falli merkis-manna.

Daginn fyrir Kyndilmessu 1768 mætti Bjarni Landph. sjóhrakníngi og kulda miklum úr lækn- ínga-ferd heimleidis frá Alptanesi, fór í kirkju í sama vedri á sunnudagian næsta eptir, á mánu- daginn lagdist hann veikur í sótt, en þá er hann legid hafdi mánud og hálfann simta dag, braust sú veiki fyllilega út, sem sídan vard bani hans; var þad ein tegund brotfalls (epilepsia), sem ad sönnu vid hvad eitt, sem hann reyndi af líkleg- ustu medölum, sviadi nockud í fyrstu, en jókst sídan æ þess meir, þó segja þad kunnugir menn, ad eckért ædru- né óþolgædis-ord hafi til hans heyrst fyrst né sídast. Adurnefndann dag, sem var 10di Martsí, á föstudag, um middegis-bil, er kona hans var ein hjá honum, féck hann þann fyrsta af ennum stóru insultus epileptici, svo á- kast, ad ecki einúngis rúm hans, heldur gólf hússins titradi, sem hræring væri, og sviadi þeim óskeyum ecki fyrr enn um midja nótt; á laugar- daginn var hann sár-aumur, og lét þá Prest-sinn Arna Þórarinsson, sidar Hóla Biskup, vera

 hjá

hjá sér mikid af degi; á sunnudaginn var hann rænnlaus, og skaddadist þá mjøg túnga hans, sem altídt er í þeirri veiki; má þess géta, þótt hann þá væri svo haldinn, lét sig samt í ljósi hjá honum athygli sú, er fylgir náttúru-fródum mønnum, er hann skipadi samstundis, ad túnga sín væri geymd í Spiritus til sýnis, ad sér daudum, hvad líkast þókti þá mundi snart adbera. Ad viku lidinni komst hann á fætur aptur, og er ecki gétid þess hann hafi stórum legid, fyrr enn 1770 frá 6ta Febrúarí til 7da Martsí, þó ecki í stridum slogum [28]). Sídan árid 1771 frá 30ta Júlí til 8da Augústí, gjørdi þó þad sumar mikilvæg framverpli til þá stiptadrar Land-commissíónar. Í næstu 2 ár var hann vid þolanlega heilsu, þó aldrei væri tilkénníngarlaust.

Um sumarid 1772 var frá honum dregid Apóthekid, hans egin stiptan, med þeim atburdum, sem hér hyrdir ecki um ad ræda, fremur enn hvad seinna mun litid ádrepid. Þá komu og híngad inn frá Englandi þeir nafufrægu, og hér ad mørgum mannúdleik alræmdu, lærdu vídførlar, Banks og Solander, fóru þeir vida um land ad náttúru-njósn; komu og vid í Nesi, og dvøldu þar heilann dag, skenkti Bjarni Landphþeim

[28]) Þann 23ja Nóve'nbr. þ. ár., hefir Bjarni komid frá einhverjum meira manni ónefndum, veikum, og ritad þá í dag-bók sína: „Varia varie tentata, „tandem bono cum successu; Sostrum; Convitia, „Verbera!" þannig launa sumir!

þeim mikið af ymsum náttúru-hlutum, er hann safnað hafði á ferðum sínum, og fágætir þóktu, líka ein og önnur smá-rit og Antiqvitæt þessa lands; bauð Bjarni þeim ásamt til miðdags-verðar, og æsktu þeir sú máltíð væri tilreidd öldúngis eins og fyrir íslendska; var þá fyrst opnaður maginn með staupi af dönsku korn-brennu-víni, síðan borið fram kökur, ostur, súrt smjör og harður fiskur, bitaður niður á disk, þar á eptir saudakjöts-steik, kjötsúpa með syru í, og seinast silúngur og laufa-brauð; neyttu þeir alls þessa með góðri lyst, að fráteknu fiski og smjöri, er þeim síst féll, en þegar til árettis var lagður fram hákall og hval-reingi, mistu þeir alla mat-arlyst í það sinn [29]). Bjarni Landph. var aptur hjá þeim að heimboði suður í Hafnarfirði, og þág af þeim að skilnaði, meðal annars, dýrindis stækkunar-gler, hvörs líki hér ecki hafði sjest, og að síðustu komst í eigur Stiptamtmanns Thódals.

Árið 1774 lá Bjarni Landph. aptur frá 4ða Febr. til 4ða Mart. dauðvona; það sama ár hóf hann bréfa-víxlun við eptirmann sinn í embættinu, Jón Landph. Sveinsson, sem þá var að bóknámi við Háskólann. Þá sendi hann og vini sínum og velgjörða-manni Hjálmstjörnu sína íslendsku Ornithologia [30]). Síðan var

 hann

[29]) Hjer um má lesa U. v. Troils Bref rörande en Resa til Island, bls. 85.

[30]) Það var þetta ár, sem allaun vetur, hellst um fösiu-tíma, sást eldur mikill uppi fyrir austan land,

hann alltaf lasinn árid 1775, reisti þó til Eyr-arbacka, fyrir einum degi kominn á skrid, þann 10da Nóv., en lagdist aptur heimkominn, og sást þá, sem ætíd, ad hann mat mikils skyldur sín-ar [31]). Þetta ár í Martsí mánudi var sendt til hans nordan úr Eyjafirdi, vegna Fransóss-ins, er þá skaut þar upp, gjørdi hann rádstefun hvørsu med skyldi fara, og kom þad ad gódu haldi. Arid 1776 var hann æ lasnari, reid þó til Løg-þíngis (eins og þángad til hvørt sumar) í sein-asta sinni, og komst med harmqvælum heim aptur, lá svo ad mestu þad eptir var árs, og eldúngis rúmfastur í samfeldar 16 vikur, fékk hann þá í annad sinn eins ákaflegt flog, sem hitt fyrir 8ta ár-

bar svo vid frá Nesi, sem væri hann í Heklu, edur í nordaustri, en úr Skagafirdi sýndist hann litlu vestar enn í sudaustri, og veit enginn fyri víst hvar helst hann var.

[31]) Um veturinn 1756 var Bjarni sóktur til Videyjar frá Finni Biskupi veikum, en þá hann fór sudur apt-ur, lá nærri hann yrdi úti nálægt Lyklafelli, rit-ar hann Finni Biskupi skømmu sídar: „Ad liggja „úti í skjóli og nógum snjó, fyrir velklædda menn „og óhindrada, eru lítil barna-brek." Mælt er þad og, ad traudt hjeldi honum vedur, sjór, né annara úrtølur; þegar hans var til veikra vit-jad, og nockud lá vid.

árum [32]); bættist líka á hann, að missa sitt efnilegasta barn, Sigríði, það ár, svo að hann hefir varla tekið penna í hönd sér frá því hún létst, þann 22ann Nóvembr. til 15da Febr. árið eptir (var þó einn á róli um tíma, þegar allir nærfellt á heimili hans láu í skarlats-sóttinni um þær mundir, og þjónaði þeim), enda var hann ecki sá, sem æskti og bæði, að hvert barn dæi, jafnóðt sem það fæddist, hvað þó er grunnhyggni sumra. Svo var hann á róli nockrar vikur, en sló niður aptur, og lá að mestu allt árið 1777 [33]), helst

[32]) Þann 14da Sept. þ. ár, ritar Bjarni Hannesi Biskupi: „Hvað mig áhrærir, þá hef eg eckert „ann- og aðsóknar-samara sumar og vor lifað, enn „þetta afliðna; fór eg svo útdreiginn til þings, „mætti þar síðvanalegu yfirhlaupi meir enn þoldi, „svo eg yfirgafst, og lagðist þar hreint, komst þó „heim þann 3ja Augústi; hefi síðan hryckt með „lasleika, og svo teiknar það til að verða það „aldurs eptir er, því mitt 57 ára Corpusculum, „er marg-útdreigið, og lángt frá líklegt til serlegs „ára-fjölda. Guð unni mjer góðrar stundar að „bíða! samt landi hjer og lýðum góðs og gagnsams Successoris! en þótt heimili hjer se fátækt, „tvíla eg ecki Guðs foðurlega umhyggju fyrir, að „sjá konu og 6 børnum borgið, og uppvekja þeim „miskunsem ásjár-augu, hvørra medal Yðar mundu „og verða."

[33]) Þannig ritar hann Finni Biskupi 29da Maí þ. á.: „Eg er alltaf all-lasinn vonar-peningur, flestr

helst frá 29da Aug. til 1ta Apr. næsta ár, ritadi hann þó þad sumar um Likþrá Islendínga fyrir Stiptamtmann Thódal. Seinni hluta ársins 1778 var hann aptur ad mestu leiti rúmfastur, allt til 27da Febr. 1779 [34]), komst hann þá

„daga á ferli lengur eda skemur, ser hvorgi nema „hvar naudsyn krefur hjer nálægt, get skipt mjer „af því, sem fyrifellur per agendum pro officio, „res œconomicas hjálpar Gud konu-fuglinum ad „nudda vid; med útkomuna berst vid í bœckum „angustiarum rerum domesticarum, segi eg svo „um alltsamann hátt og í hljódi: Dominus pro„videbit!" En Hannesi Biskupi skrifar hann svo þann 6ta Nóvembr.: „Sjálfur eg er, sem heyr„um er kunnugt, haldinn vid sængina, nú verkja„lítill nema per intervalla medan þad er, en mjøg „abl-þroti til alls, koma og fram í kroppi mínum „ýmsar fornar ýfíngar, hvad allt eg til þacka med„tek og ber; verøld hefir nú og lítils ad sakna í mjer!" Og aptur þann 1ta Decembr.: „Eg ligg enn, á„nægdur med þad Gud lætur ad høndum koma! „Prostratio virium er yfirhøfud þad serlegasta, og „mjer all-meinlegt fyrir høfdi og augum, ecki ad „mega í bók lesa nema litla stund til afþreyíngar, „en hjer gefst optast occasio ýmislegt ad þenkja, „og lofadur se Gud! sem kofar mjer þad ad geta „til hlítar; eins ad hafa ánægt sinni; er og þad „fólk í kríngum, sem per conversationem æru- og „elskusamlega leikur vid mig."

[34]) Þann 20ta Janúari þ. ár, komst hann svo ad ordi vid Hannes Biskup: „Sæng heldur mjer allt af,

þá að eins í Apóthekið, lá samt að mestu aunann, en róladi á ferli annanhvorn dag til 29da Maí

„stundum meir, stundum hóti minnur, undirlögd-
„um ofur ýmislegum insultibus morbidis! svo
„allt af sær það útslitna Corpusculum stundum
„allt, stundum particulariter að líða, og stundum
„er ecki milli lífs og dauða, nema, ef svo segja
„mætti, hnífsbacka þyckt! en eg set slíkt eckert
„fyrir mig, því eg hefi fyri laungu allt það Guði
„gefið, og, sem sjófuglarnir, stúngið höfðinu und-
„ir vænginn, læt svo í fullu trausti Guðs náðar
„reka, og lenda þar hann vill. Það er mjer hin
„þýngsta skrift, að eiga nógar góðar bækur, en
„þola ecki, fyrir aúgum og heila, í að horfa, nema
„litla stund, læt eg svo aðra, þeim til nockrar
„eptirtecktar og mjer til afþreyíngar, lesa hjá mjer,
„og er eg þó ecki frí fyri frekari andvígni enn eg
„á að mjer, þó hefir slíkt vel umborist híngað til,
„eins af skrifaranum, (það var Salómon
„Prestur Björnsson), en gefi Guð í honum,
„sem öðrum, lodi nockurt ovulum ærlegrar túng-
„unar, Guði til dýrðar og mönnum til gagns!
„en þó eg hjer liggi, hefir Guð svo um hnúta bú-
„ið, að Públícum líður ecki undir legu minni; en
„hitt er illt, að veslukapur minn gjörir það, að
„gresst með mjer eitt og annað smælki, vettugis-
„verdt að sönnu, þó þesshattar, að smeckhafandi,
„gódgjarnir, lærðir menn, hafa ecki forsmáð slíkar
„qvisqvilias phýsico- medico- œconomicas!“

Maí [35]), bránadi þá lítid 'af til þess 13da Júlí, á hværju tíma-skeidi hann yfirheyrdi seinast Yfirsetu-konu **Valgerdi Þorgeirsdottur** frá Hörgslandi þann 11ta s. m. Upp frá því verdur ecki sagt hann hafi af sænginni farid, nema medan hún var reidd, hværri hörku hann héllt fram á seinasta dag lífs síns, þó hefir hann brúkad penna sinn allt til ens 24da Augústi, ad Skúli sonur hans fór um bord á Fálkaskipi; er þess ecki gétid hann þennann tíma fengid hafi en stóru flog, en opt fanst ad rúm hans titradi, og tilfinning líkamans var hjá honum sú allra sárasta út- og innvortis. Þann 7da Sept. var hann þjónustadur, lét undir eins slá sér æd, hvør ecki vildi

[35]) Daginn næsta fyrir ritar hann Hannesi Biskupi: „Víst er fyrr heitt enn skíni! og svo má mjer þykja um veslnskap heilsu minnar, því nú hefi eg, „sídan fyri Páska, daglega á ferli dregist nockra „stund, og sídan á Skírdag dag hvørn í kirkju, þá „embættad hefir verid, en mjøg er mjer sein gefin nockur virkileg refection, og mjøg er Corpusculum, svo sem útslitid fat, vidqvæmt, svo vel „fyrir øllu, sem einkum mutationibus aëris; eins „þoli eg ecki, nema litla stund í senn, ad glóra í „bók, og ætíd verdur einhvørr partur líkamans „exstantius ad lída. Ad gamni get eg gjørt mjer, „og øllu vel uni eg vid Guds rádstøfun um allt; „en mjøg er animus vidqvæmur, og allgleyminn „gjørist eg um þad nýjara, þad gamla lodir vid „til blítar."

vildi blæda, sagdi hann þá: vid skulum ecki reyna þetta framar! lokſins píndiſt burtu líf hans þeſſa heims nóttina fyrir þann 8da Sept., þá hann lifad hafdi réttar 17 vikur á 61tá ár; verid Landphyſicus á Islandi 19 ár 6 mánudi og 6 daga, og egingiptur 16 ár 10 vikur. Er hann leiddur medur 2 børnum ſínum rétt fyrir innan kirkjudyr, ſem ſeinaſt ſtód í Nesi vid Seltjørn, og af var tekin 1797, gëckſt tengdafadir hans, Fógeti Skúli, fyrir því ſtarfi, og lét útgrafin á lík-kiſtu ſkyldi helſtu atridi lífsſøgu hans, eins og leſa má hér ad nedan [36]), en hvørki lét hann

[36]) A lík-kiſtu-pløtunni var þetta grafid:

Jeg. er. lögd. ofan. á.
andvana. Líkams.
BJARNA. PAULS. SONAR.
ſem. fæddiſt. þann. 12ta. Maí. A. C. 1719.
vard. Stúdent. vid. Kaupmannahafnar. Háſkóla. 1746.
*Philoſophiae. Baccalaureus.* 1ta. Júlí. 1748.
*Obſervator. rerum. naturalium.* Islandiæ.
23ja. April. 1751.
Reyndur. í. þeim. mediciníſku. Lærdómum.
med. beſta. Æru-titli. 24da Septembr. 1759.
Sá. Fyrſti. Landphyſicus. á. Islandi.
18do. Martſí. 1760.
Qvongadiſt 1ta. Júlí. 1763
RANNVEIGU. SKULA. DOTTUR.
deydí. 8da. Septembr. 1779.

Ná

hann lesa né syngja yfir greftrun hans, hvors Bjarni Landph. þó í lifanda lífi æskt hafdi, ásamt ad prédikad væri eptir sig, af því hann þeckti Árna Prest Þórarinsson, skrumlausann mann.

Hér hneig þá einhverr mesti merkis-madur! hneig seinna enn voulegt þókti þeim, er til þess vissu, ad hann þá fyrst lagdist fyrir, er ecki var lengur annad hægt! lagdist fyrir þreyttur, þreyttur af embættis ørdugleika og áhuga; þreyttur af pínufullum sjúkdómi; þreyttur af ymsu mótkasti, hvad enginn vissi sem sjálfur hann! hann liggur þar, sem hann sjálfur valdi sér stad, þar, sem hann sjálfur til vegar kom hinni líknarfyllstu stiptun medal manna, þar, sem allir vissu ad hitta hann til hjálpar nær því um 20 ár, en vegfarandinn, sem nú ber þar ad, heyrir hann ecki nefndann, sjer eckert blómstur plantad á legstad hans í full 20 ár, veit ecki ad hann vár til! svo mat 18da øldin dygd og verdugleika! svo ómannsárt er land vort, nú þad telur varla helmíng barna sinna mót því ádur var!

Hægra var ad lýsa verdugleikum Bjarna Landph., ádur hyrdulausrar gleymsku og ræktarleysis móda yfir þá dró, heldur enn nú er þad, einkum þeim, mestann hlut hafa flektandi ordstýr og annara søgu-søgn vid ad stydjast; en þótt Bjarni

Nú. nidurlagdur. hjá. þeirra. tveimur. børnum. en. fimm. eru. med. henni. eptirlifandi.

---

Þad. er. betra. ad. lifa. med. Kristi!

Bjarni sé nær því gleymdur, og verk hans, munu sumir ránka við sér, ef um of er lofað, en sannmælis munu þó fleiri unna moldum hans.

Bjarni Landph. var sann hálærður madur, og fannst það brádt er hann var að máli qvaddur; er það sögn kunnugra, að fáar vísindagreinir muni þær verið hafa, sem hann bar ecki góða þeckíngu á, og það hafði hann yfir marga, bædi að hann þóktist eckért af lærdómi sínum, og líka hitt, að eckért var honum yndælla, en fræða adra sem frómast, jafnvel almúga-menn, þó var hann drjúgur um allt, og ecki uppnæmur, þá svo bar undir, né hæglega hrakinn frá meiníngu sinni, því madurinn var fastheldinn og víss. Sterkastur mun hann verið hafa í chirurgicis, chemico-pharmaceuticis, anatomico-physiologicis, og arte obstetricandi, og tekið er til náqvæmni hans og mjúkleiks við veika, karl sem konu. Því er midur! að undir lok mun lidið med honum það, sem helst mundi lýsa lærdómi hans [57]), en svo var hann lestrargjarn, að vídast hvar hann var að nætur-gisting, beiddist hann bókar, er fyrir hendi var best, til að lesa í rúmi sínu, og það opt þó synðist hann væri við öl; það var og einkanlegasta qvartan hans við vini sína bædi munnlega

F

[57]) Sagt er hann hafi ritað Lækninga-bók, bygða mest á egin reynd og lands-edli voru, en lagt hana á bál, þá er hann fann hvað ser leið; og það hann gat ecki fullnað hana, og sagt undir eins: að nóg yrði að gánga ofan á þótt hún færi!

lega og bréflega, eptir þad hann sýktist, ad ecki mætti i bók líta nema stund um sinn, var hann þó til ens sídasta svo minnugur, og svo kapitulafastur í bókum sínum, ad hann sagdi þénurum sínum hvar sérhvad stædi, sem eptir þurfti ad siá vid hms tækifæri. Sérílagi merktist ad hann hafdi yndi af skynsomum og fródlegum samrædum, líka af íslendskum og látínskum skáldskap, sem vit og mergur var í, hefir hann víst verid skáld gott, ef ydkad hefdi, þótt ecki beri á fleiru þesskyns eptir hann, en því þrennu, sem hér eptir mun talid medur ritum hans [58]). Á fornfrædum hefir hann haft góda greind, því vænt þókti honum, þegar eitthvad þar úr kom heppilega vid, frá hverjum sem var, líka ber stýlunarmáti hans á bréfum og ødru, þad med sér, ad hann hefir elskad gagn- og snotur-yrdi, og óbjagad módur-mál sitt, þó var honum gjarnt, og mun því ollad hafa þankaflug og annriki meir enn smeckur þeirra tída, ad skióta látínu, þýdsku, grísku, etc. inní somu klausu, þar er ecki þurfti betur ad vanda, svo sem í dagbókum, bréfum til vina sinna, og svo fr. Kríngil-yrdur og kyminn hefir

[58]) Svo ritar Bjarna frá Leipzig hann 7da Jan. 1758 Páll Vídalín: „Þig og bródur þinn (nefnil. „Gunnar Prest), held eg fyri Skáld; mikid var „ad enginn skildi þitt samtal milli Fleyja vorra, er „til Fróns fóru, varla gat eg lesid þad utan ad „fella tár! þad er kunnstin í skáldskap, og heldur „ad qveda ljóst enn myrkt.“

hefir hann verid bædi í bréfum og hversdags tali, og mun ecki trútt um það sé ættarfylgia [39]. Raddmadur mikill er ecki gétid um hann verid hafi, en eptirlæti hafdi hann mjøg af saung.

Ritgjørdir þessa ópennalata manns eru þær helstu, sem menn vita:

F 2 1.)

[39]) Af óteljandi kýmin-yrdum Bjarna, eru fylgjandi sprettil-søgur nóg sýnis-horn; marklitlar sýnast þær kannske, en audkenna þó manninn, án þess ad slá á hann myrkva nockrum:

Pad var eitt sinn, ad hann skyldi heilsa á beck, valdi hann mørgum qvedju eptir hugbodi sínu og verdleik þeirra, samsætinu til skemtunar; loks kom hann ad Ex-presti einum og sagdi: Par situr þú, Guds trassinn!

Einhvorntíma inter pocula, sagdi tengda-fadhans vid hann, þeirrar meiníngar, ad hann ad lyktum mundi fara í hinn nedri stad; þá gegndi hinn: Ecki munu manes míuir, fara þar uppá frómann fødur!

A ferd mætti honum eitt sinn madur, sem bad hann gefa sér í nefid; Bjarni fær honum bauk sinn; madurinn tvíhellir á handarbak sér, og tekur fyrisødulaust, skilar bauknum aptur og segir: eg þacka Ydur fyri tóbaks-nefid; Bjarni svarar: Packa þú Gudi fyrir náttúrlega nefid!

Pá af ólærdum, sem í tali vid hann, beittu framandi glósum, var honum nærsta gjarnt ad spyrja: hvønær gengud Pjer skóla? hafid Pjer verid lengi utanlands? Guds fugl! &c.

1.) Nockurskonar Utmálan yfir Þingeyjar-sýslu í Islandi, fyrir Prófessor Mølmann 1749.
2.) Specimen Obſervationum circa plantarum maris island. & ſpeciatim *Algæ ſacchariferæ* dictæ originem, partes & uſus; pro ſtipendio collegii regii 1749.
3.) Registur yfir íslendsk Urta-nøfn 1749.
4.) Dr. Heuermanns Collegium practicum in operationes chirurgicas 1750.
5.) Hræsvelgs-qvida 1750, hverrar fyrr er minnst.
6.) Skíringar-greinir yfir Biskup Harboes og Observator Horrebows fråsøgur um Island 1751.
7.) Um Fardaga-kál 1756.
8.) Obſervationes circa elevationem Poli & declinationem Solis, acusqve Magneticæ in Islandia boreali 1757, til Prófessor Kratzenstein.
9.) Første Plan til Landphysicats Oprettelse i Island, &c. 1758.
10.) De Magia Islandorum 1758 fyrir Mølmann.
11.) Um Jardepli, sendt til Islands 1758.
12.) Um Fleckusótt, sendt hingad Magnúsi Amtmanni og Skúla Fógeta 1758.
13.) Samtal Skipanna Fridriks-óskar og Fridriks-gáfu 1757, ádur ùngetid.
14.) De Rhodiola 1760, fyrir Mølmann.
15.) Tvø ritkorn um Fjárpestina 1762 og 1775.
16.) Um Bólnasóttina 1762.

17.) Brúdkaups vers til Jóns Fógeta Skúlasonar og Ragneidar Þórarinsdóttur 1764.
18.) Opkast til Landcommissionen 1770.
19.) De Lepra Nostrate 1777 til Thódals Stiptamtmanns.
20.) Um Þurrabodin í Islandi 1779.
21.) Ornithologia Islandica, hreinskrifud af Haldóri Hjálmarssyni Courector.
22.) Ichthyologia Islandica; hvørttveggja mun liggja í salti hjá Vísinda-félagi Kóngs í Kaupmannahøfn.
23.) Ichthyologiæ islandicæ fragmenta, samantýnt og aukid af honum sídar, frám undir andlát sitt.
24.) Specimen Floræ Islandicæ eptir Linneé.
25.) Flora medicinalis Islandica.
26.) Nomina morborum idiom. island., er ecki nær til lykta leidt.
27.) Termini anatomici lingvæ island. byrjad ad eins.
28.) Excerpta:
  1.) Philologica úr íslendskum Søgum og Annálum.
  2.) Histor. natural. úr Museo regio.
      Mus. Wormiano.
      Mus. Adolph. Frideric.
  3.) Chemico-pharmaceutica úr ýmsum.
  4.) Medica úr antiqvitt. borealibus.
  5.) Oeconomica úr Nordurlanda Søgum.
  6.) Biographica inprim. medicorum úr sømu.

29.) Annála-safn um superstitiosa, insolita naturæ specialiora, morbos, pestes &c. úr ýmsum.
30.) Um Bólusótt eptir Dr. Eichel, Stads-physicus í Odense, útlagt á íslendsku.
31.) Bréfa- og Recepta-bækur frá því fyrst hann fór ad practísera, hverra flestar fylgja, sem Inventarium, Landphysicatinu.
32.) Dagbók yfir ferdir þeirra félaga, bædi ásamt Eggért og paradauk fyrir sjálfann sig; samt fjølda af Experimentis er hann sjálfur gjørdi, þá er hann dvaldi í Videy og annarstadar.
33.) Almanaka Minnis-bækur, sem ádur er sagt.
34.) Lækninga-bókina, sem fyrr er umgétid, og hér ad auki um luem veneream, sem gétid er um í Hist. Litter. Isl.

Ecki eru mønnum kunnug fleiri rit Bjarna Landph., er svo megi kalla; en hitt vita allir ad hann: útverkadi hér Landphysicat; Apóthek med þar til heyrandi byggingum; kom því á ad dønsk Yfirsetu-kona, med føstum launum, var hingad sett; ad Yfirsetu-konur hér eru examíneradar, og fá peninga af Kóngi; ad settir vóru 3 Fjórdúngs-Chirúrgi, med vissum launum, og føstum bújørdum, og s. f. —mikid af fátækum Prests-syni!—

Embætti sitt stundadi hann af alefli, og framar enn krapta bar til; horfdi ecki í kostnad uppá ferdaløg, medøl, þénustur, greida og annad; byggja

byggja menn, og vita víst, ad hann hefir heil ó-
skøp gêfid reikníngslaust, ecki af brydli til ad kaupa
sér lof, heldur ad koma síptuninni í gódann
þocka hjá fólki, og því var ecki furda, þótt fáir
hlutir gengju honum svo nærri, sem þá undan
honúm var dregid Apóthekid [40]); hann hefdi
F 4 sjálfur

[40]) Bref Bjarna Landph. til Dr. Finns, Biskups af
19da Septem. 1775, skal rettlæta hvorsu hier og
framar er til orda tekid um þá óhreinlegu Apótheks
Separation: „— Og nú hafa menn fengid Se-
„paratiónen! nú er þad ordid einum, annars út-
„giftalausum manni, strax á 3ja ári, torveldt ad
„úthalda, sem eg í 12 ár, án vorkunar, án minn-
„ar møglunar, án annara mjer vitanlegrar qvort-
„unar, gjørdi gladur, og þad ád vísu, einkum í
„fyrstu, med margfaldlega meiri kostnadi og mædu
„enn nú, en þegar þad fór nockud ad rettast, mátti
„ecki svo búid standa; nógar hafa saman verid týnd-
„ar orsakir, sem motiva, er eg eckert afvissi, og
„er þó illa ecki komu í ljós, svo einhvorju hefdi
„gêtad fyrir mig svarad! enn þó mig gruni sumt,
„t. d.: einum intéressérudum Landphysicó væri ecki
„betrúandi elaboratio og taxatio medicamentorum,
„í sína egin hønd; hann hefdi aldrei lært artem
„pharmaceuticam ex professo, sem Laborant; hon-
„um væri óvandt, enga reikninga afleggjandi. Slíkt
„og þvílíkt, satt og logid mátti tiltýna; en betra
„og hreinlegra var, eg hefdi mátt einhvorju svara.
„Eg hefi med vilja þagad, svo lengi ecki leid nema
„sjálf-

ſjálfur komid því hér upp, vildi því ecki miſſa þad, og undir eins tœkifœri ad gjøra morgunz gott. Jafnvel eptir þad hann var lagſtur í ſængz inn, vardi hann øllum ſínum eptirverandi kroptz um til þeſs ſama, ſvo ad þá gódir vinir hans bádu

„ſjálſur eg, en nú fer hjer fyrir alvøru ad koma „hátt Clamamus, ſvo mig ſkjer til hjarta, en „Stiptamtmann (Thódal, þá á Beſſaſtødum, en Olafur var þá Amtmadur ad Svidholti) mun „bágt ad vekja til úrſkurda, því ad líkindum heſir „hann og ſøkina rekommenderad; þad veſta um „mig var og er, ad mjer í fyrſtu hingad køllnduın, „er eg proponeradi og vildi hafa Apóthek à „parte, var þad, ſem brád naudſyn mjer injun- „geret, þar þá og enginn feckſt til þeſs, ad þegar „eg med ſtærſtu mœdu og koſtnadi, ſem ſetti mig „í þær ſkuldir, ſem enn ſtend í, hafdi um ſídir „øllu í þolanlegann veg komid, mátti øllu í einu „fráſtanda, hvar vid eckert gott loddi, nema ad „lifanda líſi útſvaradi Inventarió! þetta allt hefir „eckert brotid mig móti hinu, ad fátækum ſkedur „denegatio þvert, á móti ſcopo intentionis med „ſtiptanina! orſakir eru nockrar: 1.) Araſkipti á „ſjúkdómum. 2.) Of mikil licentia ſumra Preſta „med fátækra atteſt. — 3.) Fríheita ſlytta og „ſtafur, eru reikníngarnir. 4.) Taxatio laborum „er frek ſama og í Høfn. 5.) Uppáſtand med in- „digenorum taxationem eius, og peregrinorum en „ótemprad. Og nú er nógu laung ſúngin Næ- „nia þeſſi!"

báðu hann, að taka sér það ecki svo nærri í því ástandi, gaf hann þeim gýld svör og góð, og taladi jafnvel vid þá Norrænu [41]). Brennuvín er sagt honum hafi strax velgjedjast í skóla, þó fór ecki stórt að bera á því fyrr enn þá þeir Eggert vóru hér á ferd eptir 1752, en mjøg jókst það á seinni árum, að sønnu til að deyfa um sinn qvalir veikindanna, og géfa stundar-kjark til embættis

F 5

[41]) Eitt sinn, sem optar í legu hans á seinustu árum, bar það til, að madur kóm að leita lækninga seint um qvøld; qvedst Bjarni Landph. (sem ætíd las siálfur fyrir, edur skrifadi Recept, en fól það ecki øldúngis á vald þjenara sinna, ellegar hann yfirleit þeirra Recept ádur lengra fóru), ecki geta géfid Receptid fyrr enn morguninn eptir, en Jón Einarsson þjenari sinn skyldi þá koma og skrifa það eptir sér. Jón kom á settum tíma, baud honum gódann dag, og setti sig vid bord og skrifsæri rett vid rúm hans, sier Jón í því að svefn rennur á Bjarna, en hann byrjar engu að sídur að lesa honum Receptid fyrir; ritar Jón það á laust blad, og er Bjarni vaknar stundu sídar, sier hann Jón er hálfbrosandi, og spyr að hvørju hann brosi? Jón þegir; Bjarni segir strax: jeg mun hafa talað eitthvad upp úr svefninum? Jón játar því; Bjarni spyr: hvad? Jón segir honum það, hann hafi lesið ser fyrir Receptid sofandi; Bjarni lætur hann hafa það upp fyri ser, og segir: það er best það se þar vid. Sýnir þetta med ødru áhuga hans í embættis-søkum.

bættis anna, en þó í raun réttri til fósturs sjúkleikanum, þó segja þeir, sem kunnugt var um, eins og sérhvad, er eptir hann liggur, géldur því jáqvædi, ad þótt skémra væri uppá rekid, þegar svo var, vid ýmsa, er þad þóktu verdskulda, yrdi hann þó traudla svo, ad embættis-verkin, dugnadurinn, dánumennskan og þad verk, sem þá lá fyrir, væri ecki hugarhaldnast, mun því innri madur í raun réttri ætíd hafa verid hinn sami, þótt sá ytri hlypi í hami; objecta movent sensus! Þar um ber øllum saman, ad þótt hann varla og ecki sjálfbjarga væri, er hann kom ad dyrum sjúklings, hvar teluverdt var í húsi, hafi enginn sjed hann kénndann þegar innkom, jafnvel þó í sama sækti og ádur, þegar út aptur kom. Lækninga forskriftir hans vóru sérlega náqvæmar, ordfullar og greinilegar; gjørdi hann ecki eingungis ráð fyrir øllum tilfellum, er mæta kynnu, heldur sagdi til hvers hann ætladist med því og því medali; enda gladdi hann þad innilega, þegar einhverjum batnadi af rádum hans og medølum [42]), sagdi hann laungum, ad þad væri sá besti

[42]) Þann 31ta Decembr. 1767 svarar hann svo Hanneſi Biskupi til Skálaholts, sem ádur hafdi breflega ávísad honum bata sinn af rádum hans: „O! minn velædla, hálærdi, háttvirdandi ástvin og „frómi bródir! Salve & sospes sge! 4di hújus var sá „Ydar mannæta unnti mjer þess góda-brefs, 14di „ejnsdem dagur sá mig gjørdi hluttakandi þess „sama,

besti betalíngur, og galdt þeim jafnvel þackir fyr=
ir, sem annadhvert sin edur annara vegna, í tíma
leitudu hans; mun hann fátt hafa írádist af
embættis=verkum, svo ecki væri Gud bedinn ad
koma

„sama, Gudi se lof fyrir báda! Pjer vökvudud
„ desiderium mitt med sama, fullt svo mikid, sem
„ purissimæ latices sitibundissimum! svali Ydur
„ Gud med æfinlegri sublevation, hvad sem ad ber,
„ og um sidir med þeirri eilífri ánægju ambrosiæ
„ & nectaris hjá sjálfum ser! Eg vard af innarsta
„ hjarta gladur, ecki ad eg bæri hrædslu um Ydar
„ restitution, heldur, ad mjer fannst hvør stund
„ laung, ad fregna ecki frá Ydur." Líka 12 ár=
um sídar í vidlíku tilfelli: „Ef eg má rauplaust
„ segia, sem mjer þykir satt vera, er mjer hjart=
„ ans ánægja í, ad rád mín, vidgjørdir og tillög=
„ ur qva Medici, vid serhvørn, afklædist sem best
„ til notkunar, hvad þá ecki, er svo stedur þeim,
„ sem eg ecki einúngis hjartanlega og skylduglega
„ elska; heldur og af Gudi og mønnum eru kjørn=
„ ir svo mørgum til stodar, sæmdar og sálarbóta!"
Eins xta Decembr. 1777: "Því Pjer megid víst
„ trúa, ad mjer er ecki medalmáta eptirlæti, þegar
„ Gud gesur lucku til ætíd velmeintra fyritekta
„ vorra í slíku, svo ad qvoad fieri potest uppnáist
„ scopus instituti, og þad því heldur, sem bestu
„ menn og velforþjentir eiga í hlut, annars mund'
„ eg reikna mig sjálfann illviljad skarn af manni,
„ er og ecki-afleysandi því litlu get, þá stuttu stund
„ Gud lídur mig vid líf tórandi!".

koma til med, og blessa sín egin medøl [43]); enda þycktist hann vid, ef ecki fèck ad vita, af hvørju helst

[43]) Svo endar hann bref af 21ta Júlí 1776 til Dr. Sinns Biskups: „En þú rettnefndi gódi Gud! „blástu miskunar anda ad medølum þínum! gefdú „bædi Concipienti, usurpanti, dirigenti afflatum „gratiæ divinæ! unde lætabor tuus B. P."

Eitt sinn leitadi til hans, og var í Nesi um tíma, Þórdur nockurr frá Utverkum, komu seinna bod ad honum hefdi batnad, þá ritar hann Biskupi aptur: „Gud velkomid þier, Utverka Þórdur! ad þú stendur þig, þackadú Gudi og Biskupi! „því kjurr mundir þú verid hafa, ef eg rett þecki „slíkra fugla art, nema Biskup hefdi rekid þig. „Hafid og, Herra Biskup! hjartans þackir af mjer „fyrir gladnínguna, ad Þórdi vard ad gódu, því „slíku fagna eg í sannleika intimius, enn margir „gróda-menn ábata miklum." Annars hefir Þórdur þessi haft þúnga heyrn, ad hvørju Bjarni Landph. gamnar ser í ødru brefi til Biskups, med þessum ordum: „Vel má eg skyldugleg a þacka tilskrif „øll og sendíngar, en fyrir brita-eyrun á honum „Utverka Þórdi, leidast á mig 2 grímur, því „þau hafa gjørt mig svo rámann, ad ecki get nú „talad nema mussitando."

helst ad bati stód af rádlegdum medølum [44]). Þad var vani hans optast, er hann kom heim frá sjúkum, ad heimta kirkju lykil, ádur hann gengi til herbergis, læsti hann sig þar inni um hríd, varpadi sér støtum, og þackadi Gudi sínum þegar vel géck, en barmadi sér ella, og jafnvel minnti Gud á, ad hann hefdi lofad ad styrkja gódann vilja, og honum væri dýrdlegt og verdugt ad hjálpa þræli sínum, og svo fr. Lækninga-máti hans sjest best af dagbókunum vid Landphysicatid; en af enum stærri Operationum vita menn hann hefir gjørt þessar: Trepanatio Cranii, Tracheoraphia, Exstirpatio Cancri faciéi, Amputatio mammae cancrosae, Paracentesis abdominis, Op. fistulae ani completae, Castratio, Punctura & sectio hydrocelis, Exstirpatio polypi uteri, Sectio aneurism. veri, amputatio Extremitatum og kannské enn þá fleiri; og sérlega er vidbrugdid heppni hans og vitsmunum vid

[44]) Svo ritar hann Hannesi Biskupi þann 28da Maí seinasta sumar æfi sinnar: „Of annsamt finnst „mjer Þjer átt hafid þegar skrifudud, ad Þjer „nefnid ekkert, hvad af því ordinerada hefir kunn„ad þykja bekoma Ydur skárst; slíkar vissur eru „mjer kjærar, bædi til gløggvanar sjálfum mjer, „uppá þad conciperad hefi, og teikna eg þad þá í „dagbók mína, svo og til fyrigreidslu sídar, þeim „lisa kynnu, in casu simili"

vid jódsjúkar konur. Lét hann optast þad fólk, sem út vard ad standa þvílíkar töluverdar Operationir, taka Prests-fund ádur, og hafdi votta vid þegar uppá líf og dauda var ad tefla.

Þeim hann tók í kénnslu, var hann í fyrstu hálf-ørdugur ad yfirskini, og dulur, en þegar hann sá edli og gędlag þeirra vid sína lund, og ad þeir þoldu raunir hans vel, tók hann allt í einu ad elska þá sem børn, og spardi eckert þeim til frama og frædingar; vildi og láta hendla vid þá, sem sjálfann sig, þá er hann sendi þá í kliniskar útréttingar, lét þá líka optast matast med sér, þegar hann fór sjálfur, nema hann trydi húsráðendum því betur; og því vóru engin undur, þótt honum félliſt nockud um, þegar þeir sumir rifu sig burtu, ad orsaka-litlu, í midju kafi. Litt unni hann hlaupalæknum, en styrkja vildi hann sem flesta til ad géta hjálpad í hversdags tilfellum, þegar hann þeckti náttúru þeirra fróma, og líklegheit til þeirra hluta [45]. Manna-mun er víst hann hefir ecki gjørt sér í embættis-verkum, þad er hægt ad sjá af bréfum hans, líka sanna þad vidqvæm ordatiltæki hans um Hospitals-lima vidgjørdir sydra og vestra í hans tíd; enda verda engin spor fundin hjá honum, af því menn kalla Interesse.

Þótt hann væri vidqvæmur, gladsinna og hálfglettinn, var honum þó fjærri skapi ad útbreida

[45]) Sjá Auglýsingu hans af 24da Júlí 1770 á Løgþingis-bókinni 1771, samt 1774.

breida ávirdíngar edur fákænsku annara, syndi hann þad opt bædi á þénurum sínum, og jafnvel Prestum, hvad þeim er kunnast, er þá tilvissu.

Ad lunderni mun hann á seinni árum verid hafa nockud þéttlyndur, en ecki mjög brádlyndur; mætti hann opt, jafnvel druckinn, þúngum mótsögnum, svaradi hann fáu í fyrstu, og sat sem grundandi, medan þad afgéck, en þá hann fór sídan ad svara, var þad eitthvad, sem matarbragd var ad, og syndi, ad madur var ecki mál-laus [46].

Séd-

[46]) Stórum kolnadi líflegur og vinheitur andi Bjarna vid vissann mann, med hverjum hann lengi þæft hafdi um Hospítals umskeypíngu, og bedid hann um sína meiníng, en feck seinast veigranir og útúrdúra; medal annars ritar Bjarni honum: „O„já! eg meir enn vorkynni Ydur, þó fyrir utan „viljid vera distractionir, þad væri og synd, ad „ætlast til þess! — þad er heldur enginn vilji „minn ne vani ad lacessera Ydkur, mínir hán „Superieurs! ad þarflitlu; mjer þykir vær allir „annars verdir! og sjálfur má eg vita, hvad di„stractionir, tímanna óvissur, ferdir yfir háls og „höfud, Curæ, og óumflýjandi vokur &c. hafa gjört „mjer, svo eg, í slíku útslitid grey, varla þecki „mig sjálfann! hvad, þó allt fyrirfram sæi, gjördist eg slíkri Guds, náttúrunnar og Yfirvaldanna „koll-

Sèdlempinn hlÿtur hann ad hafa verid og fús til forlíkunar, er leitad var; vita menn ecki hann hafi átt í málum edur deilum vid neinn, átti hann þó saman vid marga ad sælda. Til lífsloka unnti hann Eggerti Lögmanni, þó er víst þeir vóru ecki gèdlíkir. Hja lands vors ædstu mønnum, sem þá sátu ad Leirá, Bessastødum, Skálholti, Hólum og Videy, hyggja menn ad mestu segjast mætti hann væri alltaf í mikilli vinsáttu, lofudu sumir þeirra hann, sem frómlundadann, ágirndarlausann og gódmenni; milli munns og sæpa kann stundum margt ad hafa farid, svo ad allt hafi ecki verid sem heilagast, enda mun hann hafa verid snidugur nóg ad hrynda því í lag aptur, hafi hann fundid sig oflángt gengid hafa þar, sem

„køllun ecki óhlÿdugur, var og aldrei ofgódur til
„ad slítast í einhvørju því, sem fleiri máttu gott
„af geta, er og ecki, svo lengi Gud ann mjer
„nockurs fjørs! En um Hospítølin verd eg þó eitt
„hvad per intervalla ad þenkja, fyrir þær mørgu
„motiver, sem Ydur hefi ádur sagt, einkum þar
„nockud hefi eptir reqvisition í því fyrr móverad,
„og hlutvrinn er í sjálfum sèr þarflegur, svo þreyngjandi fái einhvørstadar tilflugt, því hafi minn
„Successor nockurt oeconomiskt vit, mun hann ecki
„ofhlada sig svo med Patienta, sem eg, naudarinnar vegna, gjørt hefi, og þó meira hlut atvinnu allrar adkeypt.“

sem honum var vel í þocka vid hlutadeigendur; annars er ecki víst hann hafi lagt sig mjøg í bleyti til þess.

Ad hann hafi land- og mann-vinur verid, sýnir allt hvad hann ritad og adhafst hefir, og eins metid verdugleika, hvar þeir vóru, án øfundþótta, sannar, auk margs annars, adqvædi hans um Eiúlf heitinn Jónsonius [47]), og qvedjur hans til Hannesar Biskups.

G · Bjarni

[47]) Svo kemst Bjarni ad ordi í brefi til Finns Biskups af 10da Augústí 1775: „Nærstlidinn føstu„dag, var eg vid jardan sál. Observator Jónsonii; „mannvøl missast úr landi! og hvørr succederar „honum nú? einhvørr framandi, en hefdi víst op„id stadid samlendum, hefdi smeckur og athuga„semi einnhvørn leidt inní þetta Stúdíum; en „þad er ecki svo! og, hvørr succederar þier nú „Bjarni minn? dicis; hann er á reidum høndum „(forsan: J. Petursson), en ætlid øllum væri „þar med þient? ørdugt á allar sídur er þad ein„um framandi; Dominus providebit!“ Og enn segir hann þann 15da September. „Enginn veit „hvad átt hefir fyrr enn mist hefir! og svo mun „margur sakna mannærn, hugvits, lærdóms og „handa Jónsoniusar, sem allt var exstans supra vulgus! og er þad þó sárast, ad enginn er af „slík-

Bjarni Landph. var, eins og vídar hefir lódad í ætt þeirri, þad sem menn kalla forvitri, edur gêt-

„slíkum manni fullkomin Kopían, já; ecki mjer
„sjáanlegur utanlands neinn, sem trúandi se fyrir
„hans Station; því þó Stephán Bjørnsson se
„Mathematikus, mun hann þykja madur egin-
„sinnadur og óhandqvæmur.“ Svo ritar hann
Hannesi Biskupi til Skálaholts 24da Septembr.
1768, um fárádinn Magnús Hallason, sem hjá
honum var: „Enn nú vil eg bidja eins Ydar gud-
„lega dúfu-brjóst og vidqvæma humanitæt, ad
„leggja til gód ord bædi vid Føður og Rector, ad
„Magnús Hallason, sem eg ætla mjer ad skila,
„kunni fá einhvørja ásjá! eg hugsa til skólans.“
Og til Hafnar þann 14da Septembr. 1776:
„Blessud veri mannæra Ydar fyrir afskipti af vill-
„íngnum M. Hallasyni, en kallast megi flestir
„sót-raftar á sæ dregnir: a.) Þegar hann vard
„Stúdent. b.) Þegar nú, med Hafnarfjardar
„skipi, siglir Páll Sveinsson, Djákn, útlifadur,
„marg-afeggjadur, og enginn veit til hvørs. c.)
„Par til má leggja, ad Eiríkur Prestur Bjarna-
„son sækir nú uppá von og lucku um ad fá tillags-
„kornid, sem Þórdur heitinn Prestur hafdi. Hann
„er madur hjálparlítill, nema hvad bjargast vid
„medaumkan annara! Gud hjálpi philantrópiskri
„mannæru Ydar, ad ljá þeim miskunsamt auga
„í því til Ydar mætti koma, bádir þurfa þess
„med.“

gétspakur um hmsa hluti óframkomna [48]); var þad ósjaldan, ad hann sagdi fyrir dag og stundu,

S 2 er

[48]) Svo er mælt: ad bréfur nockrar væru milli Bjarna Landph. og Løgmanns heitins Sveins um þad mediciniska; Løgmadur hafi gjørt ser ad gamni um púrgjeringar, klysterpípur og s. fr., hafi þá Bjarni eitt sinn sagt: hann skyldi fást hægt um þvílíkt, því Jón sonur hans yrdi Landphysicus eptir sig. Og var þad þó ádur enn þessi hafdi gefid sig til Læknis-listar.

Þad er alkunna, hvad Bjørn heitinn Apóthekari ládi dryckjuskap framan af æfi sinni, svo Bjarna sem ødrum; eitt sinn þá þessi var ølhreifur, er sagt kona hans hafi minnt hann á, hvad Apóthekara væri nú bodid, hvørju Bjarni svaradi: hugsa þú eptir, Ránka mín! Bjarni deyr, en Bjørn lifir!

Getid er þess líka, ad einhvørr þjenari hans hafi honum ecki sem lidugastur verid, og brotist frá honum einhvørnveginn ecki sem best; sór fyrir honum, sem Bjarni sagdi eitt sinn: ad hann mundi ecki stórri gæfu stýra til lykta!

Þad var á fyrrum árum Arna Biskups Þórarinssonar, þá Prests ad Lambastødum, ad Húsfreyja hans átti tvíbura; sat Bjarni Landph., medal annara, skírnar-veitslu þeirra, og gjørdu menn ser ad gamni vid Arna Prest, út af frjósseml þeirra hjóna, en hann qvadst þá mundi hættur þeim størfum, sneri máli sinu til Bjarna, því hann hugdi hann

er skipti um fyri sjúklingum hans, til lífs eda dauda, og jafnvel sjálfum sér; verdur því ecki neit-

hann sér medmæltann; en Bjarni qvad þau hjón eignast mundu 7 drengi og 2 stúlkur, þó mundi annadhvørt, ad þær yrdu ecki lánglífar, ella mundi hann þá andadur, er þær fæddust, og fór þetta eins og hann sagdi. En þad sagdi hann kunníngjum sínum ad til marks hefdi verid: ad einusinni hefdi hann mætt Steinunni Húsfreyju á Lambastødum, í húmi dags frammi í dýrum, hefdi sér þá sýnst 9 børn um kríng hana, en 2 af þeim sá hann ad eins í þoku.

Eitt sinn sem optar var Bjarni Landph. á ferd, lángt frá heimili sínu, feck hann upp úr þurru innfall, ad rída heim ad bæ, sem þó var af leid þeirra, en er þeir komu þángad, geck Bjarni strax í bæinn, sátu þar konur nockrar, og súngu líkþsálma, enn í fleti lá kona í barnsneyd, ad þeirra hyggju ørend; Bjarni bad þær hætta saung, og víkja burt, fór høndum um konunaz og nádi fóstri hennar, ad bádum lifandi, reid sídan af bænum, mætti manni konunnar skammt þadan, sem sóktur hafdi verid, er menn trúdu hana látna, var hann stúrinn mjøg, en Bjarni huggadi hann strax, og fylgdist med honum aptur heimleidis.

Þad var einn morgun um vertíd, ad Bjarni Landph. vaknadi, og spyr til vedurs? var honum sagt þad hid blídasta; hann spyr: hvørt menn seu rónir; honum er sagt: alskipa um øll nes; hvørt skip

neitad ol^úngis, ad hann tæki eptir draumum, enda er þad margt, sem íbyggid og æft hugvit hendir reidur á; var þad og er, mjøg samqvæmt ódali hans, ad deila og grilla nockud fram í forløg manna, eptir svip þeirra, limalagi og annari háttsemi, í hvørju hann hefir ecki heldur framandi verid, sem sanna vitnisburdir hans um suma nýkomna lærlinga sína, hverjir raun gaf sídan vitni ad réttir vóru, lika mørg vidskipti hans vid adra útífrá, sem oflángt er ad rekja.

Svo er sagt, ad Bjarni Landph. væri med minni mønnum ad vexti, magurleitur, med nefi fløtu vid ad framan, enni og munn í medallagi, einvardur í tilliti, ecki serdeilis fridur, en þó snar- og rétt-eygdur; smágérdir vóru ad sønnu vedvar hans, þó vóru ecki abl-sinar sem linastar, þegar beita skyldi; med nockrumsinnum til skada komnar hendur, syndi hann sig ætíd hinn nettasta í handtøkum, og mjúkhendtasta; í framgaungu var hann flestum innlendum snotrari.

Fyst nockurn ad heyra sterfbúss-søgu Bjarna Landph. og gjøra sínar athuganir þar yfir, þá er helsta inntak hennar þetta:

1.) Heila sterfbúsins Massa var 1664 rdlr. 60 ß.
2.) Allar skuldir 1553 rdlr. 26 ß.

 3.)

skip hans seu og róin? já; Gud fyrigefi fólki ad róa í dag, segir hann, en þad er þeim hulid, munu þó piltar mínir ná lífi og landi. Sama dag nádu færstir lendíngu sinni, nema þeir, en fórust á annad hundrad manns í skiptøpum.

3.) Til skipta kom milli erfju, eins sonar og 2ja dætra 111 rdlr. 34ß.

4.) Sterfbúid og þess góts hafa administrerad:
*a*) Sýslumadur Gudmundur Runólfsson.
*b*) Oekónómus Gudmundur Vigfússon.
*c*) Sýslumadur Vigfús Þórarinsson.
*d*) — — Steindór Finnsson.
*e*) — — Sigurdur Pétursson og
*f*) Landfógeti Skúli Magnússon.

5.) Ad sá seinasti hafi verid helst orsök uppihalds, er judicialiter notum, þó munu fleiri ega þátt í med honum.

6.) Skiptis Yfirforvaltarar hafa verid:
*a*) Stiptamtmadur L. A. Thódal.
*b*) — — — H. v. Levetzow.
*c*) Amtmadur Th. H. Meldal.
*d*) Stiptamtmadur O. Stephánsson og
*e*) Hid konúnglega danska Cancellie.

7.) Skiptid var til lykta leidt af Sýslumanni Sigurdi Péturssyni, þann 15da Decembr. 1798.

Gefist daudum ró, og líkn þeim, er lifa!

Sic

Sic

Merita viri magni, Manesqve

*PAULSONIANOS,*

pia mente canit, & veneratur

ex Sorore Nepos.

Qvae bene praeſtiterat, multi praeſtare neqvibant,
*PAULI* progenies inclyta, *BERNO*, ſenis.
Multa tulit, fecitqve bonus, tantummodo pauca
Geſta viri magni nunc tetigiſſe juvat:
Cum docto doctus Socio montesqve Sinusqve
Luſtravit patriae, prataqve vaſta ſuae.
Pulchrum opus! utile opus! naturae hic mira videmus,
Multiplices patrii divitiasqve ſoli,
[49]) Qvi ſcripſere prius, vendebant monſtra chimaeras;



[49]) Ad hjer eru ecki allir meintir, ſem ſkrifad hafa fyrri (t. d. Móſes, Heródótus, Livíus ꝛc.), ætla

KATLA pecus Stygium, daemonas HECLA tulit!
Qvas non impuro nugas *BLEFKENIUS* ore
(Ut reliqvos taceam) credulus evomuit?
Hic fit longe aliter, discussis nempe tenebris
Naturae artificem cernimus usqve manum.
Qvaeqve tremenda diu fuerant mysteria priscis,
Ante Oculos Cuivis nuda & aperta jacent.
Visitur excelso residet qvi Monte Deaster
Monstrorum domitor BARDUS in occiduis.
In tenebras depressa suas, & viscera terrae,
Perlustrata tua est lumine SURTE! domus.
KATLA ferox, indigna viris, tua Limina claudis;
Claude ferox! magni te Jovis ira manet!
Acciperes Socium, notus feritate Lycaon
Arcadius si te vellet habere procus.

Red-

eg ollum sjáanlegt; hier er verid ad tala um Island, og þess útmálun, þar med hljóta þá ad vera meintir þeir, sem þar um hafa skrifad, þó lángt frá allir. Ari Fródi og margir á fyrri tímum, hafa vel og rett um þad skrifad, eins Arngrímur, Horrebow, Eggert sjálfur, ádur Reisubók þeirra kom út; heldur eru hier meintir Blefkens og Andersens líkar, ef nockrir væri.

Reddidit illaesum rabies, qvem ſpargit in altum,
GEYSIR, idem praeſtant flumina, teſqva, nives.
Invia virtuti ſunt pervia; KRABLA liqveſcens
Scanditur intrepido, torrida & HECLA pede.
Notio ſic rerum, ſic experientia creſcit;
Singula qvi luſtrat certior inde redit.
His bene confectis procerum favor (indiqve crevit,
Parta eſt Sceptrigeri gratia *BERNO*! tibi.
Qva ſic uſus eras, ut commoda plurima tellus
Sentiret Genitrix; ſentiet illa diu.
ARS MEDICA in patria ferme neglecta jacebat
50) Qviqve aegris nôſſet, rarus, adeſſe, fuit.
Siqve fuere, artem qvi nôſſent, unus & alter
Vaſta praeſtiterant in regione parum.
Hinc vulgo miſeros ſvevit male doctus Agyrta



50) Þó bædi Hiſt. Eccleſ. og Litteraria Isl. ſýni, ad Læknarar hafi nockrir verid hjer í landi, gátu færſtir af Landsmønnum þeirra notid, nema þeir næſtir vóru. Þá hefir og ordid ad vanta medøl, tíma og áhøld til verkſins, hafa fleſtir af þeim átt búi ad gegna, og ordid ad ſinnda ſína ſtjett. Nú er þad annad, þegar Landphyſicus er viſs og Chirúrgí ſettir í Fjórdúngana, útbúnir med medølum og áhøldum, ſem ecki hafa ødru embætti ad gegna.

Curare, eventu, qvem Dea caeca dedit.
Qvaeqve, Obstetricum, partus leniret acerbos,
Defuerat matri docta & amica manus.
Sors fuit haec patriae longos miseranda per annos;
Deserti frustra Femina Virqve gemunt!
His praesens felixqve malis Medicina parata est,
Cum Medicus Patriæ factus es ipse tuae.
Artis Paeoniae gnaros *Islandia* multos
Inde tulit, certis dispositosqve locis.
[51]) Vapulat hinc passim langvor, febrisqve maligna;
Optatam pariens nunc bene sentit opem.
Et qvo sint metuenda minus contagia morbi,
Jam prostant aegris pharmaca promta domi.
Pervigil haec tibi cura fuit, labor arduus ille,
Excercens vires ingeniumqve tuum.
Ursit & inceptum generosi pectoris ardor,
Victor propositi factus es usqve tui.

Erec.

[51]) Vapulat má hjer segjast, vidlíkt og vapulat peculium. Morbi kunna og kallast ad fái uppá snúdinn hjá Læknurum, þegar þeir enda þeim og útrýma. Ordid er og handhægt í versi, og gamalt skóla-ord.

Erecti est animi spreviſſe obſtacula, tandem
Vincere qvicqvid obeſt, Marteqve & arte ſolet.

Caetera praetereo, vitae qvae tempore fauſto
Praeſtiteras Patriae commoda mille tuae.

52). Profueras Scriptor, Doctor, Medicusqve Datorqve
Dives eras patriae, non tibi dives eras!

Mos

52) Rit hans eru nockur ádur talin; hann var ópennalatur, og vildi ſem fleſtum gagna; hann var þá viſi Scriptor. Doctor var hann bædi í ſkrifunum og líka munnlega; bædi konum og korlum, lærdum og leikum, þienurum ſínum og ødrum úti frá, var hans yndi ad undirviſa. Medicus var hann nomine & re. Dator: Eg held hann hafi gefid óſkøp af medølum, bædi ríkum og fátækum, helſt medan Apóthekid undir høndum hafdi, eins reiſur ſínar og fyrihøfn, og ſ. fr.; ad eg ecki tali um þær ſtór-ſummur, ſem landid á honum ad þacka: bygg-ingina í Neſi; Landphyſicatid med ſtandandi launum; Chirúrgos í Fiórdúngunum; Apóthekid med gjafa-medølunum; nærkonu peningana ꝛc. Eptir hann munu og mørg áhøld í Neſi, dýrum dómum keypt, er hann traudt hafi fullborgud fengid, fyrir utan þad, hann var gódhjartadur og ørlátur alla ſína tíd. Af þeſſum þankum fædiſt og Pentametrid: Dives eras patriae, &c.

Mos erat antiqvis tales, poſt funera, Divis
(Hoc meruit virtus) annumerare viros.
53) Certe raſa Cohors multos, ignobile vulgus,
In Caelum intruſit, qvi meruere minus.
Te natale ſolum feros laudabit in annos,
Splendebit merito nomen honore tuum.
Sic vixiſſe decus! ſic mortem obiiſſe beatum!
Sic, o ſic patriam demeruiſſe juvat!
Felix ſorte tua, longe ſuper aſtra relatus,
Praemia nunc magni magna laboris habes;
Nam bene cum meritis caeleſtia gaudia carpis,
54) Hem! fruere aeternum nectare & ambroſiâ!

Hag-

53) Þetta distichon leidiſt af þeirri íhugun, hvørſu pápíſkir hafa per fas & nefas trodid mørgum óþocka mønnum inn í himininn, hvørjir vel máttu standa þar úti fyrir, þegar Bjarni ſál. Pálsſon var þar gladlega inntekinn. Eg held annars, ad í forneſkju hafi ecki adrir ſettir verid í Guda-tølu, enn nytſømustu og nafnfrægſtu menn; en vid vitum hvørnig þad tilgeck ſeinna á tímum í Róm, og einkum í Páfadóminum.

54) Hem þetta átti ad vera gaudentis edur exſultantis; mjer ſýndiſt ecki ótilheyrilegt, ad ſvo ágætlega forþjentur ærumadur, og ſem hafdi ſvo gjørſamlega

# Hagbrygdi Heilbrygdinnar
vid andlát
sáluga Landphysici
## Bjarna Páls sonar.

(Send heilum hug af Sra. Jóni
Þjódskáldinu Þorlákssyni.)

Hví er heilbrygdin
harmi lostin,
gagns og gladværdar
guddómleg módir?
Sýnist mér úr brjósti
sem blód renni.
Hverr hefir hana
hjörvi særda?
Hana hefir Sótt
hjörvi særda
og ben blódugri
á brjóst lostid,
er

lega útslitid ser í Fødurlandsins þjenustu, fengi hjá Superis ósvikna hressingar-skál, þá hann var þángad kominn, sem bædi væri kjarnbetri og drjúgari enn vor kaupstadar Vappa. En ad fornskáld hafi gjört rád fyri því, ad Cælites sætu ecki vatnandi á himnum, er kunnugra enn dæmi þurfi til ad leida.

er hún bana bjó
Bjarna Pálsyni,
frómum Land-lækni,
og lærdum mjøg.

og med gódgjørnu
gefuglyndi,
hefir manngi meir
henni mót gengid.

Hann var hermadur
Heilbrygdinnar
øblugastur einn
á Islandi.
Hafdi hann lengi
varid hennar gard
ígégn áráfum
og ógn Sóttar.

Lengi var hann vørn
vorú landi,
og støckti sterkri
styrjøld Sóttar;
hvørjum hildar serk
sem hún klæddist,
vard henni starf-strídt,
þó stundum ynni.

Sífellt sóktust þau
Sótt og Bjarni,
hún med hardfengi,
hann med vitsku

Minnisstæd mætti
manndád Bjarna,
þegar flagdid fór
af Frans hingad [55])
mik-

[55]) Ecki má annad, enn færa hjer inn skáldsins egin ørd í brefi til vinar síns, utan um vísurnar: „Verdugleikar mannsins vóru lángt fyrir ofan mína „lágu, og allt af meir og meir læckandi Musam— „medal annars fleira, get eg til Þjer mislíka kunni, „ad eg hefi minnst þar á b. Frantzósinn, med því „jafnvel nafnid er vidurstygd, en þad gjørdi eg „þó ex professo, því aldrei heyrdi eg Bjarna minn „sál." (Authór var um hríd hjá Bjarna Landph.) „hrósa sínum meriter, sem þó vel mátti, nema „því, ad hann hefdi útrýmt þá skømm og land- „eydíngu bølv. Frantzósinn (hans egin ord)."

mikid vann hún vondt,
en verra mundi,
nema Bjarna bót
bjargad hefdi,
og brotid bølvætt þann
á bak aptur.

Vardi hann vitsmunum
og virkta ment,
vardi hann fé-munum
og fjørs ebli,
til ad hefja hag
Heilbrygdinnar;
og giøra gard hennar
glæsilegann.

Byrtid þér, brúdir!
sem børn alid:
var hann ydur eigi
til adstódar?
fyri flutníng hans
og framgaungu,
njóta nærkonur
náms og launa,
og þér handhjálpar
hálfu meiri.

Kunna eg Bjarna
kosta mærann,
mikinn mannvitríng
og menta vin;

ljúfann í líferni,
lastvarasta mann,
frómann og fródann
og fé-gjafa.

Mun til Medaumkan
í manns brjósti,
ef hún eigi var
altem Bjarna?
hví var honum þá
svo hardt goldid,
og launad láti
fyri lækníngar?

Hvar var Heilbrygdi
hetju ad duga,
móti Sóttar sókn
og sigd dauda?
vann hún aldrei
á orku Bjarna,
fyrr enn fal nádi
Foríngja sins!

Laust hún þá loksins
Læknir frægann
vid barm Heilbrygdi
bana-sári;
og hennar hjarta
hjó svo nærri,
ad sollin brjóst-ben
mun batna seint!

Síd-

Sídan ſitur hán
med ſárs-auka,
litverp og lotin
vid leidi Bjarna;
og er ſem oni
ad upp af honum,
muni liknar-gras
lokſins ſpretta.

Lengi mún þó lifa
lofſtýr Bjarna,
lifa liſtir hans,
og lands elſka;
lifir ſálin ſjálf
í ſælu Guds.
Hvad er þá dáid?
Dupt og Mæda.



## Frá Rithøfundi er eptirfylgjandi innsendt til Réttingar:

| Bls. | | línu | | les |
|---|---|---|---|---|
| 4. | | 19. | góður, | les gáður. |
| 5. | . | 20. | Hyrdstjóri, | l. Hyrdstjóra. |
| 9. | . | 2. | Hjálmars, | l. Hjálms. |
| 29. | . | 28. | pulchridinem, | l. pulchritudinem. |
| 41. | . | 19. | hvørra, | l. hvørrar. |
| 45. | . | 8. og 9. | enn nærsta, | l. ena nærstu. |
| . | . | 17. | var | l. ver. |
| 48. | . | 16. | komin, | l. komna. |
| 50. | . | 4. | Eggió, | l. Eggio (v. Eggjo). |
| 60. | . | 14. | Bjarni, | l. Bjarna. |
| 68. | . | 18. | þar, útilátist. | |
| 88. | . | 28. | en, | l. er. |
| 93. | . | 12. | Oranii, | l. Cranii. |
| 98. | . | 17. | er kallast megi, | l. en kallast mega. |
| 101. | . | 14. | einvardur, | l. einardur. |
| 105. | . | 7. | indiqve, | l. undiqve. |
| 107. | . | 24. | hafi, | l. hefir. |
| 108. | . | 14. | Distihon, | l. Distichon. |